# Lijted og einfaldt
# DIARIUM,
Edur
# Dagleg Ydkun,
wt af
# Siø Ordum
þeirrar signudu Meyar Mariu,
Módur JEsu Christi, sem i gudspialllegre
Historiu fiñast epter henne uppteiknud;
Ad medfylgiande
# Siø Hugvekium
wt af
# Drottennlegre Bæn,
Samannborenne vid sierhvert hennar Ord.

Samannteked af Sr.
JONE WIGFUSSYNE.
Fyrrum Preste ad Skarde i Medal-Lande, Anno 1706.

Selst Innbunded 8. Fiskum.

Prentad ad Hrappsey, i þvi Konungl. privilegerada Bókþrykkerie, 1783.
af Gudmunde Jons Syne.

Þessar Bækr, nefnel: *DIARIUM* Sr. *Jons* Saal. *Wigfussonar*, Siø Sendebref JEsu Christi, til Safnadanna i Asia, med Utskijringu þess Æruverduga Guds Manns Sr. *Gudmundar Högnasonar* i Westmannaeyum, og Fiórar Misserasskipta Predikaner sama Mañs, hafa fyrer mörgum Arum vered sendar hijngad til ad þryckiast, enn hafa þo ei a Prent wtgenged, nærsta Ovijst einnig hvenær þad verdur: Þa til lætst hier med *Seignr. Boga Benedictssyne* ad læta prenta þessar Bækur, i sijnu *privelegerada* Bookþryckerie; So þesser goodu Bæklingar ei ligge lengur sem hulenn Fiesioodur, helldur ad þeir mege i Lioos koma sem flestum Guds Bornum til saluhialplegra Nota. Til Merkes mitt Nafn ad Hoolum i Hialtadal D. 24. Junii 1783.

HALFDAN EINARSSON.

  

Saa fremt Bogtrykkeriet ikke fortsættes paa HOLUM, kan disse Böger trykkes paa RAPPSÖE.

L. A. THODAL.



# Til Lesarans.



Þad vilda eg kunnugt giøra, ad þetta tek eg mier eingannvegenn fyrer Hendr vegna fánytrar Fordilldar, þar eg fáfródr veit mig hier af einga Hrósun hiá lærdum Mönnum forþena; Helldr óska eg ad gudhræddr Lesare siáe þann minn Tilgáng, sem Gud veit ad sannr er, ad eg villde med þessu

Verke, bæde siálfann mig, og mitt fáfródt Heimilis-Fólk uppvekia. Þar nærst, og þó framast, kynne þad mínum Gude til Þóknunar vera, sem af Ungbarna Munne hefr sier Lofid tilreidt, *Psalm.* 8. Og hann hefr wtvaled þad sævijslegt er fyrer Heimenenum, 1. *Cor.* 1. Er og betre þesse Ydia, þó veikleg sie, enn syndsamlegs Hiegóma Astundan, edr hættusamt Ydiuleysi. Umþenking Drottennlegrar Bænar virdtest mier best hier medfylgde, þar hun ætte á hvórium Dege hellst og framast ad yfirvegast af oss, og fyrer Gud framsetiast.

Gud virde þetta fyrer mier, og upptake nádarsamlega, og gooder Menn æglijte þad meinlauslega.

Jon Wigfussſon.



# Mariu Vyse,

Edur

# Lijf-Saga

## helgustu Guds Moodur.

Jeg vil Jomfrw eina, jafnan losa betst, Heimur ei hlaut þaa neina, heñe samlijkest, Guds Menn ætijd greina, Gæfuna hennar mest, leifist mier ei leyna, las eg uñ þad flest.

(a) 3 2.

2. Fyrstu Fedgin bæde, Fognud heyrdu þañ: Syndlaust Kveñmañs Sæde, sigre Falsarann. Sijdan segia Fræde: Saunann Gud og Mann, froomust Meya fæde, Fylgd vor nefnest barn.

3. Frændleifd Davids fróma, fræg var Mariu Ætt, burdug Hión med Blóma, Barn þad hafa fædt, Lif og Sider lióma, Lærdóms hafa gætt, Ölst Mey upp i Sóma, Ást og Lof feck sætt.

4. Jomfrw Joseph hreinum, játud sneña var, hæfde honum einum, hennar Vernd og Svar, hrein i Hiwskaps Greinum, Himna Kongeñ bar, so ei mætte Meinum, Meyar Lijf nie Faar.

5. HErrann henne sende, Hofud-Engil sinn, Getnad Christs ad kende, kom til Meyar inn: Fraa þier froomast Kvende, fædest Lausnarinn, alls Valld hefur i Hende, hærsta Son og þinn.

6. Ansar ágiæt Meya: Eingañ kende eg Mañ. Engell enn ried segia: Anda heilagann, sig ad henne hnegia, hærsta Krapteñ þann; Hennar Hag mun beygia, hvert Ord verka kann.

7. Eingañ Grun a giorde, Guds Bod hyllt-est ad, Trw og Hiartad heyrde, Hlijdne-bwna bad: Ambátt Guds ad yrde, óskar sier, og kvad: Epter þijnu Orde, a mier fyllest þad.

8. Þá Guds Son geted hefur, geck til Frænd-fólks hardt, Kiærleiks Tign ei tefur, tókust Kved-iur snart, Fóstre Fagnad gefur, frámar Kvenna Art, Andeñ elldre krefur, uñ þad mæler margt.

9. Hærsta HErrans Móder, helgust Kvenna ert! blessadann ber þu Bródur, Barn mitt sann

þann

Þann Snert, sannrar Trwar Sioodur, sæla fieck þig giort, hellst sa Hagur goodur, hiet þier DRottenn bert.

10. Sætt Lof Gude syngur, sæl Mey Maria, hærstur Himna Kongur, hoof mig, Þernu sma, af Stól Herra stijngur, Styrk liet Auma sa, allur Allda Hrijngur, Astgiøf þessa a.

11. Hallst Missere hafde, hia Elisabeth, þad sem Porsen krafde, þioonad giarnann liet, svæsde Son og vafde, sa Johannes hiet, i Heimsor hvorge tasde, hitte Nazareth.

12. Fyrr enn Joseph froome, Frwnne tæke vid, lyst vard leyndum Doome, Lijfs Voxt bar i Kvid, vitur vill i Toome, vægia Frægd og Frid, þootte sier ei Soome, ad samhyllast þann Sid.

13. Þogull hugsar þetta, þar med sofnar eiñ, Engels Ord ried frietta, Otta hafdu ei neinn, Mariu Meyu rietta, mattu elska hreinn, af Anda Guds Olietta, elst af henne Sveinn.

14. Jungfrw Jooded sæta, JEsum nefne þier, sa mun Synder bæta, sinn Lijd kvitta hier, vaknadur vill giæta, Vitrunar seu ber, hiellt vid Meyu mæta, vid Munad fordar sier.

15. Skattgiolld skipud voru, skylldast hvor Mann heim, helgust Hioonen fooru, hratt til Bethlehem, Davids Ætt ad svooru, eins var badum tveim, i Feikn og Fatækt stooru, Ferd var Ohendt þeim.

16. J Ett-Borg ei nadu, Abyle nie Vist, legleg Hioon lijtt fiadu, Lidsemd hafa mist, aungver ad þeim gadu, i Eydne feingu gist, i Hwse harla smadu, hvijlast mædd og þyrst.

17 Oliett Mey þar elur, ædstann Himna Kong, af sier um hann velur, ounur fær ei Faung, i Stalle OMottenn dvelur, dimma Nott var laung, Brioosted Barne selur, byriar sætann Saung.

18. Hirdar Fegden fundu, Friettum lystu þar, Engell oss a Grundu, um Christ Vitne bar, saum i samre Stundu, Sveiter himnesk-ar. Lijknar Lærdom mundu, Lofgiord kunug var.

19. Minnug matte vera, Mey sw Maria hiet, ein kunne oll bera, Ord og Takn sem set, sijdann sialf kunngiora, so uppskrifad get, a Attadag umskiera, wngann Son sinn liet.

20. Stiornu-Geistar gooder, greina Hwsed þad, fundu Herrar frooder, færre austan ad, Son og sæla Mooder, sijdann i þeim Stad, hrein Trw hnie og Siooder, hafa vegsamad.

21. Fram leid Fiolde Daga, for til Kyrk-unnar, goodfws giætte Laga, Guds Son þangad bar, Foorn sem flester plaga, fyrer hann greidde þar, helgust eins sier haga, sem Hioonum skylldugt var.

22. Aaiæt i Mustere, Ungbarn hafa fært, kom þar ad sa kiore, kroptug Raad fieck hrært, sækest Sveinen bere, Saung þad hafa lært, ad eins aller giore, undrast Fedgen kiært.

23. Frwñe Forſpaa giorde, froomur Simeon, minſt ſaa morgum verde, meſta Heill og Tiðon, Saal þijn mun aa Sverde, ſærd fyrer þiñ Son, ad ſig Hiortun herde, huleñ Manna-Sioon.

24. Aull Bod Logmaals enda, Oſkylld baad-um tveim, Taakn og Tilſogn kienda, Trwna jook i þeim, Dygdar Dæme ſenda, dyrre Gull og Seim, wr þvi aptur venda, i Nazareth heim.

25. Um Hws og Heima-Efne, hafde Forſioon Mañs, Fooſtreñ fieck i Svefne, Fregn og gudlegt Ans, baud i burtu ſtefne, braatt til Egyptalands, ſo Kongar Kalls ei hefne, á Chriſtenie Móðr hañs.

26. Joſeph bregdur Blunde, burt foor ſomu Nott, Miſſer eingvann munde, Mædgeñ frelſar ſlioott, Ar 7 med þau unde, Egyptſkre hiaa Droott, beid til þeſs Blood-Hunde, banad hafde Soott.

27. Svar Guds fieck þar ſijdañ, ſaa er Jo-ſeph hiet, ei þarſt hier ad bijda, Ætt-Land meira met, Ogn ſkallt eingre kvijda, Ovin eg Daudañ get, med Svein og Flióðed frijda, fór i Nazareth.

28. Hætte Reiden raanga, riettu vel wr Sorg, Huggun heima faanga, Hvijld og gooda Biorg, aarlega uppgaanga, i Jorſala Borg, bratta Leid og laanga, lidu Arenn morg.

29. Eitt Suñ eñ uppfooru, og toolf Vetra Sveiñ, til Haatijdar ſtooru, toldu ei Baga neiñ, um Viku þar voru, veitteſt Sermon hreinn, ſo heim aptur ſneru, Son var epter einn.

30. Ofmiog Ætlan trwa, Ætt-Foolk hyll-eſt ſad, einn Dag ofann ſnwa, ecke fundu

þad, i Hoop sem hia þeim bwa, hvør Mañ
Goods þeim bad, hrygg i Harme og Lwa,
hvursu aptur i Stad.

31. Þria Daga þar leita, þesse blessud
Hioon, Svefu og Sadning neita, syngia marga
Boon, mæda sig til Sveita. syrgia mesta
Tión, Meyan Hugsan heita, hafde uñ siñ Son.

32. J Kyrkiuna koma, Kennefedrum hia,
hærst i Sess og Sooma, Sonenn fundu þa,
Svør hanns Søgn og Dooma, sierhvør undrast
maa, fagnar Meyan frooma, fyrnar þa
hann sia.

33. JEsus Son minn sæte, saara feckst oss
Pijn, med Sorg og Mootlæte, mædd leitudum
þijn, ansar Son agiæte: Uñ mig Trega tijn,
Fodursens Frægd ad bæte, fremst er Skylldan
mijn.

34. Ord þau ecke skilia, enn þo være skijr,
Mooder mun þau hylia, miñug ad þeim byr,
Son maa sier ei dylia, samt heim med þeim
snyr, veitre þeirra Vilia, var þeim dæll og hijr.

35. Vækur votta vijda, var þar helgust
Frw, Fooſtrenn framde Smijdar, forstood
þeirra Bw, Tala þeirrar Tijdar, toolf Ar
eru og þriw, sæle Joseph sijdar, sofnade i Trw.

36. Sonur Sess og Giæde, sijdann veitte
þar, fulla Þorf og Fæde, Forsioon þeirra bar,
byriar blessud Fræde, byrtest hvør hann var,
i Cana Brwdkaup bæde, bodenn fioorda Ar.

37. Vijn i Veislu þrytur, veik til Sonar
sijns: Hioonum biarga hlytur, i Hiawist

Kraptar þijns, Moodur Bœn ei brytur, bijd til Tijma mijns, Trwen Naadar nytur, noog var þaa til Vijns.

38. Heilög Ritning hæler, hafe Hioonum sett: Hvad minn Sonur mæler, minnest giøra riett, aller eru sæler, sem Ord Guds fylla sliett, Hræsnen Hlijdne tæler, hanns Ord virder liett.

39. Borg Nazareth sinaum, sijdann skilduſt vid, komu i Capernaum, Christi fylgde Lid, i Sioo-Stad ei smaaum, attu Sess og Frid, Mey aa HErra haaum, hiellt med Sæmd og Sid.

40. Annavann Metnad Manna, Mædgen hafa aatt, Aud og Ohoof Granna, Ollden virder haatt, so meigum vier þad sanna, vid Son vill mæla fraatt, Flockar Foolks þad banna, fieck ei Rwm um Gaatt.

41. Undrast miög Ofrooder, Ord hanns Verk og Tal, Trie-Smid tiaa hann Piooder, Tign hanns virda Skial, Maria hanns Móder, minst i vorum Sal, hanns Ætt og hvor Brooder, hulenn oss ei skal.

42. Audna Heims Odæla, aa þeim hafde Piöst, meinar Lof ad mæla, miog þo gaange liooſt, ei maa Andann tæla, Ord hiaa Kvinnu biooſt, sann eg Moodur sæla, sw þier veitte Briooſt.

43. J Lausnarans Lide, lijka Kvenn-Foolk var, Mey Mooder ad Gude, meinum hellsta þar, Sonar Ord og Side, sw heyrde og bar, full af Trwar-Fride, fws til Aftsemdar. 44.

44. Til Jorsala seinast, Sonar Ferd var hia, eins af ollum meinast, Athofn hanns þar-sia, hana med Bordhalld hreinast, helgust einnenn þa, so i sundur greinast, Sal þeim gieck hun fra:

45. Under Kross hia Christe, klarust Meyan stood, Frid og Fognud miste, Fiell a hana Blood, Harmur Hiartad niste, Hrygd med saran Mood, eins angrad i Bryste, alldrei var neitt Fliood.

46. Mañ sa Módur svina, mestu þolde Pijn, Hlydne Harm skal vinna, hier þo misser mijn, sia þar Son þinn Kvinna, sa skal gæta þijn, eins ried Svein aminna, ad sie Moodur sijn.

47. Forsioon, Frwnne veiter, fra þvi Johannes, sem Barn vid Moodur breyter, bweñ vel til þess, Hlijfd og Huggun veiter, Hlydne Sæmd og Sess, sio Ar þar uñ Sveiter, sa til Upphelldes.

48. Dauda Christs var vidur, veik ei Krosse fra, af Trie tekenn nidur, tigenn Son sinn sa, i Stein-Þro sem var Sidur, sier hun Smurdur la, sterk Trw Moodur stydur, stoodst þvi Hormung þa.

49. Liwf hia Læresveinum, lijka var þa stodd, Hyrd af Herra einum, i Hwsid oll var kvodd, Holld med helgum Sveinum, hoof þeim sæta Rodd, allra mest þa meinum, Mooder yrde glodd.

50. Allt ad Uppstigningu, opt fieck Sonenn sied, a Fiall oll þau geingu, Uppfor hefur þar skied, hia Christ þar samann hiengu,

hlaut

hlaut Matthias Ved, Andans Astgiof feingu, eins var hun þar med.

51. Yfir Sofnud Sonar, sio Ar hafde Raad, sonnust Vitne Sioonar, siaalf hefur þeim tiaad, hvor Mañ veit til Vonar, verda þvi uppskraad, þar med Gude þioona, þeck vid hærstu Raad.

52. Lyndes lijk var Christe, Lijf hennar og Saal, Añde Guds upplyste, eins Verk, Sid og Maal, aa Synd alldrei fyste, Aud, Metnad nie Braal, til Guds Giædsku þyrste, giorde ongvum Taal.

53. Alla Æfi nærsta, Ol i Mootlæte, Gude Hlijdne hærsta, hvert Sinn liet i tie, hun feck Heidur stærsta, Hroosan liet ei skie, hiellt sig helldur smærsta, helgust Mey þo sie.

54. Hennar helgust Dæme, hrein er Ast og Trw, i Vriooste blessad Ræme, betst vardveitte sw, Christnium sem vel sæme, ad siaa uñ Hws og Hiw, heillt vill hvorium kiæme, Hiaalpar-giorn var Frw.

55. Hiervist vissa kønnum, vart sextiju Ar, hiaa sijns Sonar Møñum, sofnar Meyan klaar, i Fride og Fognud sonnum, fann ei Daudans Saar, øllum Efa boñum, Astmenn felldu Taar.

56. I Leide Lijk med Blóma, lagde helgra Hond, i Dyrd Lif og Lióma, leidd var heñar Ond, uñ Sælu þá og Sóma, Søgn er mier ofvond, Christs Postular koma, med Keñing vidt uñ Lond.

57. Mey Guds Mooder finnum, mitt i Augusto, ædre øllum Kvinnum, aagiætlega doo, Ment þo marga kynnum, Maal sem Cicero, Virding þaa ei vinnum, være makleg þo.

58. Mariu Nafn þá þíder, það er Remu-
Siór, heñar Naun það hlíder, hier var heiſt og
ſtór, Heims þo harma Líder, Heill þier Drotteñ
ſór, ſætt Vín fær uñ ſíder, ſúrt þvi undann fór.
59. Eg vil Mariu Æſe, oll greina med Vers,
vid Ared vard i Hæſe, Viiſna Fiolde þeſs, bid-
ium Gud oſs giæſe, Glede og Himna Seſs,
Sorger Manna ſvæſe, Saungur Olafs Preſts.



# Nockrar Viiſur.

## Um Velgiørninga Chriſti vid oſs Mennena.

Kvednar af *Sira Gunnlauge Snorraſ.*

Vegna Manna Manndoom bar,
mætur DRottenn Hædanna,
af Guddooms Krapte Guds Son var,
getenn vegna Mannanna.

2. Vegna Manna Meyan bar,
i Moodur-Liiſi hinn Heilaga,
af Frwnne ſijdann fæddur var,
i Fatækt vegna Mannanna.

3. Vegna Manna minn JEſus,
mildur liet ſig ummſkiera,
af Lande wngur ferdaſt fws,
a Flootta vegna Mannanna.

4. Vegna Manna HErrann hlaut,
helgánn Skijrnar Sattmæla,
Freiſting leid og þwnga Þraut,
þri-

þrisvar vegna Mannanna.

5. Vegna Manna Christur klaar.
kennde medal Gydinga,
geck um̃ krijng og grædde Saar,
gefins vegna Mannanna.

6. Vegna Manna wr Vatne Vijn,
veitte hann Gestum Brwd=Hioona,
drijgde Braud med Blessan sijn,
blijdur vegna Mannanna.

7. Vegna Manna Maalholltum,
Mælsku veitte skijrlega,
Hallta giørde ad Heilsættum,
HErrann vegna Mannanna.

8. Vegna Manna reka ried,
fraa Rænulausum Dioflana,
reyste upp Foolked fram̃lided,
frægur vegna Mannanna.

9. Vegna Manna Forsmaan feck,
af Foolke sijnu daglega,
sijdann wt i Gardenn geck,
Guds Son vegna Mannanna.

10. Vegna Manna mæddur þar,
miste Sveitann blooduga,
af sijnum eigenn Sveine var,
svikenn vegna Mannanna.

11. Vegna Manna bundenn braatt,
af blindum Flocke Strijdsmanna,
Hws af Hwse heila Naatt,
hrakenn vegna Mannanna.

12. Vegna Manna Haad feck hann,
hræktur, slegenn vondslega,
af

af heidnum Bodlum hlioota vann,
Hyding vegna Mannanna.

13. Vegna Manna Hofud hanns,
hlaut ad lijda Þyrnana,
negldur med þann Kvala-Krans,
a Krossenn vegna Mannanna.

14. Vegna Manna vondra þo,
vard ad kveliast þwnalega,
sijdann Krossens Dauda doo,
DRottenn vegna Mannanna.

15. Vegna Manna frægur foor,
Frelsarenn til Helvijta,
arla Dags med Undur stoor,
uppreis vegna Mannanna.

16. Vegna Manna epter a,
uppstijgenn til Hædanna,
sijnum Fodur setteft hia,
Son Guds vegna Mannanna.

17. Vegna Manna sende sinn,
Sannleiks Andann heilaga,
Fyrirboon vid Fodurinn,
flytur vegna Mannanna.

18. Vegna Manna allt og eitt,
i ollu Giædskan blessada,
allann sig feck ollum veitt,
allra vegna Mannanna.

19. Vegna Manna Mann og Gud,
mildann lofe sætlega,
sierhvor Twnga sahn-trwud,
sialfra vegna Mannanna.



# Sunnudags Ydkun.



Gudspiallamadurenn Lucas skrifar i 1. Cap. þegar Engellenn Gabriel, sagde Jomfrw Mariu, ad hun munde i Heimenn fæda JEsum Christum Guds Son, hafi hun þannig fyrst Englenum svarad: HVørnig SKal þAd SKie, Af þVi Ad Eg HEfe Allngvann

A MAñ

Mann Kennt? Og er þetta hennar fyrsta Ord i heilagre Ritningu.

So sem Menn, a hvorium sijnum Ersides Dege, þad vijst vita skulu, hvad þeir ydia eige a þeim Dege, so vit þu, mijn Saal, ad GUd hefur i Dag boded þier, og lated tilsegia fyrer sijna Engla, þad er sijna Þenara, ad þu skuler þioona sier i Dag med sonnum Heilagleika, hvar fyrer þier Ordsok gefst þar so til ad svara: Hvørnig skal þad ske? Þar sem eg er veik Manneskia og vanmaattug til allra goodra Hluta, þo skalltu gaa ad þvi þu mootseger ecke Skipun DRottenns, þvi Hlijdne er betre enn Offur; Enn efa þo ecke GUds Raad, þvi saa, sem þier skipade þad, hann mun einnig styrkia þig þad so ad framkvæma, sem honum lijkar og þier betst hentar.

*I.* Skalltu merkia um̃ þetta Ord: Hvørnig skal þad ske? Ad þad er Um̃þenkingar verdt Ord, og kann ad hafa tvofallda Meining. Fyrst Efasemdar, annad Faafrædes; Þad fyrra skalltu varast i Dag, so þu efir ecke þad Gud lætur þier segiast og predikast i sijnu Orde; Eñ aa þvi seinna skalltu sem fastast standa, so þu bidier GUd med sijnum H. Vijsdoome þitt

Faa-

Fæfrræde ad upplysa. Seig þu ecke med Zachariu: Hvørnig skal þad skie? J Efasemenne, so þu verder ecke straffadur; Helldur spyr med Mariu: Hvørnig skal þad skie? So þu fæer Undervijsun i þijnu Skilningsleyse, um þa Hlute sem þig mest umvardar.

*II.* Er þetta Ord eitt Spurningar Ord, og mæ einnig færast til tveggia Meininga. Fyrst til Hnysne og Oleyfilegrar Eptergrenslunar um GUds hulda Leyndardooma; Þad skalltu læta vera læangt fræ þier, so þu stygger ecke þar med þinn GUd. Far þu ecke i Dag æ Fund þijns HErra med neina Forvitnes Hræsne, eins og Herodes, helldur medtak med Hiartans Fognude i DRottenns Hwsi þad þier sagt verdur, og þacka þu lifanda GUde þad, hann virder þig Vidurmæles, og kannastu i gudlegum Leyndardoomum vid Dædsemd og Alvitsku DRottenns, þad þeir openberast þier ecke fullkomlega i þessu Lijfe. Hald þu Oumbreytannlegt Guds Ræd þier til hinns besta, sem ecke kannt ad Sinne ad bera þad allt, sem hann þo hefur þier ad segia; Enn vona þu med Postulanum, ad æ þeim eilijfa Sabbats Dege mune linna Hælf-Verk þinnar Skinseme, nær þu alla Leyndardooma fullkomlega þecker. J annann Mæta, færest þesse Spurning til nytsamlegrar Epterleitne þeirra Hluta, sem Naudsyn er ad vita; J þann Mæta skalltu, mijn Sæl,

 vegna

vegna þijns andlega Skilningsleysis, leita Uppfrædslu hia þijnum Gude, med Nicodemo, i þeim Hlutum sem þinne Velferd vidvijkia. Hwsid GUds og hanns Kyrkia, i hvoria þu ätt nu i Dag og adra DRottenns Hvijlldar-Daga ad inngäunga, er einn Skoole og Kennslu-Hws GUds Barna, i þvi er siälfur GUd Skoolameistarenn, sem þann andlega Lærdoomenn kenner, fyrer Hond Engelsins, þad er: Kennemannsins; Skoola-Bornen eru Tilheyrendurner, hvorier þar fyrer DRottne standa, bijdande epter hanns Undervijsunar Andsvorum og Leidrettingum. J þennann Hoopenn skalltu þig gefa, og auglysa Gude þijnum þitt Fäfræde; Enn vertu ecke athugalaus under hanns Kenningu, og ecke þverbroteñ under hanns Tilsogn, so þitt Hiarta fare ecke toomt heim aptur af þeim Funde, so sem þeirra, er haũs Lærdoome ecke skeita, til hverra hann talar i Epterlijkingum, so äheyrande skilie þeir þad ecke, og þo þeir spyrie: Hvørnig skal þad skie? Fä þeir einga Undervijsun, og blijfa samt i sijnu Fäfræde, þar þeim hlijdugu DRottenns Læresveinum verdur unnt ad vita Leyndardooma GUds Rijkes.

Þrijr eru þeir Hluter, sem hier eru allra naudsynlegaster ad vita uñ siälfann þig. Sä fyrste er: Hvornig þad kunne ad skie, ad þu saurug og syndug Manneskia, kunner so lifa

fyrer

fyrer þijnum Gllde bæde i Dag og 'alla Æfi þijna, ad honum meige vel lynda og lijka? Þessa Spurning skalltu enn fram̃ fyrer hann bera, og haf goodann Athuga a þvi sem hann svarar, enn varast ad gleyma þvi sem hann i þessu fyrer þig leggur. Annar Hluturenn er saa: Hvornig þad kunne ad skie, ad þu vesæl og vanmaattug Manneskia, kunner ad afstanda allar þær Þrauter og Freistingar, sem ad þier kunne ad koma a allre þinne Æfe, og sijdann Daudann sialfann? og mundu þig, þu slepper ecke þeirre Huggun, sem hann giefur þier a moote þessu. Saa þridie er: Hvornig þad kunne ad skie, ad þu daudleg Manneskia, kunner ad odlast hiaa Gllde almaattugum og eilijfum, allt þad þu vidþarft og þig brestur i þessum Heime, og sijdann epter lided Lijf, eilijfa Saaluhiaalp? og varast ad sleppa þvi Medale, sem hann giefur þier hier til, so þu farer ecke a Mis vid þaug eilijfu Giæden. Merk hier einnig, ad med þvi Maria spyr ad þessu gudrækelega, þaa fær hun hiaa Englenum gooda Undervijsun, ad þesse blessade Gietnadur i hennar Kvide, mune skie fyrer Glds Omælelega Daadsemd, og sem hun þad heyrer, giefur hun sig strax til Frids og Þykest þaa noog skilia; Eins skalltu vita, ad Glld mune leidrietta þig um̃ þad, sem þu i sonnum og audmiwkum Einfalldleika hann adspyr, og nær sem þu heyrer, ad aller Hluter skie epter hanns Almætte, Daadsemd og Myskun, hvort sem

A 3 þad

Þad er andleat edur lijkamlegt, þaa bliif þar vid, og vit, hañ kann alla Hlute yfergnæfann-legar ad giora, enn vier bidium eda skinium. Þar eru tveir Hluter allrahellst sem GUd hefur þier skipad: Fyrst, ad elska sig fullkomlega. Añad, ad elska Naawngann sem sialfann þig. Hier mattu nu lijta til þijns Vanmattar, og spyria: Hvørnig slijkt kuñe ad skie? Og sia til þu gioer þad med Audmykt og Einfallldleika, og muntu faa gott Andsvar, ad GUds Kraptur muñe verda i þier breiskum mattugur, enn þo skalltu ecke i Vidleitne þessara DRottenns Skipana uppgiefast, saker Orvæntingar uñ þinn Matt, helldur bijd Nada og Adkvæda GUds, sem þig muñ styrkia, og halltu hanns Polenmæde fyrer þijna Saaluhiaalp. Ad sijdustu eru þad þrijr Hofudhluter sem GUd hefur þier lofad, sem eru: Fyrst, sodurleg allra þinna Nauds-ynia Uñsorgun, Forsioon og Verndan. Añad, Nadarsamleg Syndanna Fyrergiefning. Þridia, eilijf Saaluhiaalp i Himnarijke. Þo þu siaer hier aa moote þijna illa Verdskulldan, og GUds Oumbreytanlegt Riettlæte, samtvarastu i Esaseme honum ad andsvara: Hvørnig skal þad skie? Helldur aalykta i þijnu Hiarta, ad Vitnesburder DRottenns eru trw-annleger, og ad hann sie Sañleikureñ, hvørs Ord alldrei forgaanga munu.

*III.* Er þetta Ord ein Trwarstyrkingar Ok og i þann Maata sia þu ad sw signa-

da Maria allrahellst soleides talar: Hvørnig skal þad skie? Hun stendur þar under Rædu eins himneskꝭ Predikara, og henne verdur þar bodadur eiñ hæleitur Hlutur, sem længt gengur yfer hennar Skilning, so henne liggur vid ad veiklast, enn til Styrkingar sinne hættulega tilstandande Trw, spyr hun aptur: Hvørnig skal þad skie? Og fær gooda Vidretting, ad þad mune skie fyrer gudlegañ Daadsemdar Krapt, þar med er hun ænægd.

Nu, mijn Sæl! Þar þu sier hvad stoor er Veikleike þinnar Trwar, þæ met þad fyrst mest af ollu odru i Dag, ad leita þier Styrkingar i Hwse DRottens hiæ Kiennemannenum, sem er Engell edur Sendebode HErrans, er þier so sem annare Mariu, bodar andlegann Gietnad GUds Sonar i þijnu Hiarta; Þess Hlutar Orsok, edur Medal, gietur þu ecke i Nætturunne funded, og ecke uppgrenslar þad þijn Skinseme, þvi seig þu af Trwarstyrkingar Epterlængan: Hvørnig skal þad skie? Og muntu Andsvar fæ sem þier mun nægia. J annann Mæta merk, ad Maria færer þæ Orsok til sinnar veikrar Trwar: Ad hun hafe eingann Mann kiendt.. Þad var Orsok nætturlegrar Skinseme. Þu kañt i ollum þijnum Efnum somuleides ad veikiast af holldlegum Skilninge; þvi giæt ad þremur Orsokum sem jafnañ frañsetiast i Hwse GUds,

ad moote Orsökum þinnar Skinseme. Sw fyrsta, er GUds Almætte og Dadsemd, ad moote þijnum Vanmætte og Veikleika. Hin önnur, hans Alvitska ad moote þijnu Fäfræde. Sw þridia, hans Nad ad moote þijnum Overdugleika; þessvegna hvad hellst sem þu veitst ecke, skilur ecke, edur veiklast um, og þu seiger: Hvørnig skal þad ske? Þa fær þu ad heyra þessar aadursagdar Ordsaker, vert þa strax til reidu ad trwa, og bid Gud ad hiaalpa þinne veikre Trw. Vertu þess vegna i Dag fyrer þijnum Gude, og bid hann ad kienna þier og undervijsa þad þu vidþarft, og koma i Veg fyrer Veikleika Trwar þinnar, og gef goodann Gaum ad hanns Andsvörum, enn vertu þa ecke seinn ad þacka honum fyrer sijna fodurlega Undervijsun. Etijd ber þier ad igrunda Verken DRottenns, enn þo framast er þad þitt Skylldu-Verk ad Helgedøgunum, so þier sie þad Fyrerntyndan þeirrar Ydiu, sem þu skallt fremia ad þeim eilijfa Hvijlldar-Dege i Himnarijke. Hier seger þu i Fafrædenu: Hvørnig skal þad ske? Þar muntu segia i fullkomnum Vijsdoome, Gude eilijfar Þacker, fyrer hanns Dadsemdar, Vijsdooms, og Myskunar-Verk, sem þu þa fullkomlega þecker. A M E N.



1. Hug-



# 1. Hugvekia.

Hvad er alla Tijma bæde mijn Skyllda og Naudsyn, ad avarpa þig i miñe Bæn, þu almattuge, alvijse og myskunsame Gud, enn þo einkanlega a þessum þijnum Sabbats-Dege, enn eg finn eingva vera kroptugre edur naudsynlegre, enn þaa sem þu hefur sialfur lagt mier i Munn, sem vier kollum DRottennlega Bæn, i hvørre vier fyrst bidium ad þitt Nafn helgest, sem mier nu synest vel heima eiga vid þennann Dag, vegna þess Verks sem nu helldst fyrer mier liggur ad giora, sem er ad heidra og virda med gudlegre Þionustu þitt H. Nafn; Enn hvørnig skal þad skie? Minn Gud! ad eg gete þad giort sem ber og hæfir. O! mijn Saal, ef þu þykest hafa Þorf fyrer a þeim hinum virku Dogunum, ad bidia Gud til med þier ad koma i lijkanlegu Verke, so þad kunne ad skie farsællega þier til Nota, hvad miklu framar þarftu nu i Dag, ad bidia Gud þinn Styrks og Adstodar, i þvi stoora Verke, sem nu fyrer þier liggur ad giora, sem er, ad helga og virda Guds dyrdarlega Nafn? Þvi hvornig kynne þad annars ad skie af þier til, sem ecke ert neyt neckud gott ad-

 hug-

hugleida af siælfre þier, hvad þær miklu stjdur ad tala edur giøra gott? Hvørnig skal þad skie, ad þu saurug og margfalldlega syndug Skepna, kunner i Dag ad helga siælft Guds Nafn? Hvar skalltu taka þær Helgun? Hvad kann ad finnast hreint hiæ þeim Ohreinu? Ecke er annad hiær oss nægra ad fæ enn Rænglæted, sem þad daglega inndreckum so sem Vatn. Muntu þetta eiga ad bioda Guds Nafne? O Nei, længt fiærre. Hvad villtu þæ annad til Ræds taka, enn bidia Gud med odrum hanns Børnum, og segia: **Fader vor, þu sem ert æ Himnum. Helgest þitt Nafn.** Læt mig rettelega i Dag heilagt halda blessad Nafn þitt, og þvi gudrækelega þiona, annars kann þad ecke ad skie, þvi eg er allskyns Synda Saurendum underorpenn. Þetta sie þijn Ferda-Bæn til Kyrkiunnar i Dag; Medkenndu þinn Vanmætt, enn bid audmiwklega, ad þu meger Styrk ødlast.

*I.* Er GUds Nafn, siælfur GUd, so sem hann sagde vid Moysen: Þad er mitt Nafn ad Eilijfu, þar med skulu Menn nefna mig. Hvad tignarlegt er þetta Nafned, þvi Gude er eckert ædra; O! hvad skamt mun eg komast ad heidra soddann Nafn? Hvørnig skal þad skie, ad eg komast kunne til Fullkomlegleika þessa Verks? Hvar mun eg fæ Hug til ad takast þad æ Hendur?

ur? Og þo eg sæe þar Hug og Dioͤrfung til, hvar er þaa Mæatturenn? Gud er sæ fullkomnaste Heilagleike, sem eckert saurugt maa liida; Hann er sw allra hæavolldugasta Vera, sem þaa mestu og audmiwkustu Virding vill hafa; Hann er alvitur, og sier þvi grandvarlega allt þad sem oss i hanns Þioͤnustu aabrestur. Þar aa moote erum vier fuller Saurgunar, audvirdeleger og vankunnande, til ad þioona honum sem ber og hæfer, aa þessum Dege, og jafnann.

II. Er GUds Nafn, allt þad, sem oss. um̃ Gud i hanns Orde er auglyst, og vier um̃ hann vidurkiennum, hvad oss er i Hendur feinged, med allre Virdingu ad medhondla; Þetta aattu nu i Dag, Saala mijn, med ad fara: Med goodann Dyrgrip þykest þu alldrei geta so fared sem hann er verdur, hvad miklu sijdur med gudlega Kynningu, þaa allra kostulegustu Perlu. Kynning Guds er þad klaarasta Lioos; Hvoͤrnig kunna Myrkur mijns Hugskots ad faa þad hondlad? Hun er sa dyrmætaste Fiesioodur; Hvoͤrnig kann mitt saurendafulla Hiarta hann ad geyma? Hun er sa hædste Vijsdoomur; Hvoͤrnig mun eg faafroodur faa hann gripeð? Hun er eilijft Lijf; Hvoͤrnig skal þad skie, ad eg i þessum Synda-Ham, gete naad þar um̃ rettelega ad þenkia?

III.

*III.* Er GUds Nafn, gudleger Eigenn-legleikar, Almætte, Dyrd, Myskun, Sann-leike og framveges, um̃ þaa aattu i Dag med allre Æru ad hugsa, tala, og Verkum þijn-um fyrer þeim riett ad skicka. Ottastu hanns Almætte, og vona þo einnig uppaa þad; Fyrer hanns Dyrd audmyktu þig; Myskunseme hañs prijsa þu; Enn trwdu og hlydtu hanns Sann-leika: Þetta er skipad so af Gude þijnum HEr-ra. Æ! hvad maa eg vesæl Manneskia, skoda hier minn Vanmaatt? Hvad ordugt mun þetta Verked verda mier einsomlum? Hvornig skal eg þessu til Leidar koma, skule eg i þessu vid siaalfann mig briootast? Ad mæla aa moote Guds Skipan, þore eg ecke, enn ad giora hana, finn eg mig vanmaattugann nærsta til vera; Athugum þar fyrer: Fyrst, Guds Nafn ad helga eigum vier, med gudrækelegre Heyrn og Medtoku Guds Orda, i hvoriu þu, Saala mijn! maatt þig nu skoda, hvort þad mune kunna ad skie i Dag af þier siaalfre til, skule þad skie rettelega, þvi hier heimtest og þarf til sannur Hiartans Hreinleike, alvarleg Astundan og hræsneslaus Audmykt, fraa Hiartanu eiga laangt ad vera aller syndsamleger og hiegoom-leger Þaankar, oll Deyfa og Athugaleyse, og oll Hardwd og Ysterdrepskapur. Twngan aa ad hafa sijna Ydiu, og bidia Gud, tala um̃ hanns Stoormerke, og lofa hann, Lijkamenn allur og Limerner, eiga ad syna aa sier Audmykt

og

og Lotningu, jaa, allur Madurenn, med Saal og Lijkama, aa sig þar fullkomlega til ad leggia, so eckert aa vante; Enn hvornig kann slijkt ad skie af oss, syndugum Monnum, og so sem seldum under Synd og Raunglæte? J annann Maata, eigum vier, Guds Nafn ad helga, med christelegu Lijferne, sem Guds Vilia og Ordum er samhlioода, so þaug kienneſt oss ecke forgiefens, og vier medtökum ecke Guds Raad til Onytes; Enn soddann Skyllda verdur hiaa oss ad litlu; Þar er eingenn sem gott giører og ecke einn, aller hafa Skort aa þeirre Hroosun sem þeir eiga fyrer Gude ad hafa; Hvernig skal þetta dyra Verk þaa framkvæmaſt af mier, sem er einn medal þeirra aumuſtu, þvi eg veit i mijnu Hollde byr eckert gott? Ef eg treyſte mier ecke til ad þioona einum jardneſkum Herra so honum lijke, hvernig skal þad skie, ad eg gete þier, so sem ber, tilbærelega þioonad, miñ Gud? Laattu, myſkunſame Gud, þitt Nafn i Dag og alla Tijma hiaa mier heilagt verda; eg veit ei hvornig þad kunne ad skie af mier, enn þu, DRottenñ, ert almaattugur, og getur þvi vel til Leidar komed. Eg vil nu gaanga til þijns Hwss, enn er þo trwarveikur, ad eg mune þad Verk geta uñed, sem mier ber þar ad viña. O miñ HErra! Hvernig skal þad skie? Þu veitſt hvornig þad skule skie, gief mier eins Andſvar og Engellenn gaf Mariu uppaa hennar Spurning, sem er: Ad þinn heilage Ande kome yfir mig i

Dag,

Dag, af hvørs Krapte ad þitt heilaga Nafn mætte helgast hiaa mier.

O þu blessade HErra! Helgest þitt Nafn, og læt mig þad so i Dag helga og tigna, ad mier hlotnast mege, aan alls Ofullkomleleika, þad ad tigna og virda, i þeirre himnesku Jerusalem. A M E N.

# Manadags Ydkun.

Ritningen seger hiaa Lucam i 1. Cap. nær Gabriel hafde sagt Jomfrw Mariu, ad Guds Sonar Getnad i hennar Kvide, munde verka heilags Anda Yfirskygging og Guds Kraptur, hafi hun svarad aa þennann Haatt: SJaa! Eg Em AMbaatt DRottenns, VErde MJer EPter ORde ÞJnu. Þetta er Mariu annad Ord.

Hier

Hier skalltu nu, Saal mijn, hugleida, ad þesse Dagur er sa fyrste af þijnum sex Erfides Dogum, sem DRottenn hefur þier tilskickad, og þu eiger nu ei sijdur hanns Skipun ad gegna i Erfidenu, enn þinne Naudsyn, þvi þu siert hanns Ambaatt, sem skylldug siert ollum hanns Ordum ad hlijda. Þar næst þacka þu Gude þijnum, sem þier daglega fyrersier ollum þarflegum Hlutum, og hefur gefid þier Erfided til Medals þinnar Atvinnu, hvort hann siaalfur vill blessa, so þier þad gagnlegt og heppnessamt verde, ef þu Ottast hann og uppaa hann vonar, hvad þier ber ecke ad laata vanta.

*I.* Skalltu þess vegna i þiñe Erfides Þionustu i Dag, þenkia til þrefalldrar Þioonustu: Gudlegrar, mannlegrar og Diofulsins edur Syndarennar Þioonustu.

1. Attu Gude helldst og framast ad þioona, hvorn þu aatt jafnann fyrer Augum ad hafa i þijnu Erfide, Ottastu hann, og bid hann um̃ Blessan. Vertu i þess Uppbyrian bænrækenn, i þess Fram̃kvæmd ydenn og aastundunarsamur, þo i Von og Otta DRottenns, og i þess Endalykt þackláatur. Kannastu vid, ad hañ sie þinn HErra, enn þu hanns Þræll edur Ambaatt, og halldtu þad fyrer þinn Heidur, ad hann vill þig þess virda.

2. Siertu Mønnum undergefinn, þat þioona þeim med Otta, ecke under Augun, helldur trwlega, og þad fyrer HErrans Saker, hvors vegna þu att allre mannlegre Skickun ad vera undergefinn, og þenk einnig i þvi Efne siertu Ambatt DRottens, sem þier hefur slijkt skipad.

3. Skalltu fordast Diofulsens Þioonustu, so hun verde þier ecke med Kvolunum launud. Lat ecke Syndena drottna i þijnum daudlegum Lijkama, vertu ecke a moote Gude nie Mønnum moglunarsamur, ecke vid Ydiuna og Verked bloovtsamur, ecke vid þinn Nawnga, edur Samþioona ill-lyndur nie ofugur. Hugsa þu einnig i þessu til Guds þijns HErra, hvors Forbode þu att so vel ad sæta sem hanns Skipun. Gud lagde fordum Erfided fyrer Adam, epter þad hann hafde syndgad, med hvoriu hann apturkallade hann fra Diofulsens Prældoome, og skyllde Erfided vera so sem Awnrijke þad, sem bannade honum Tijma og Tækefære, til ad þioona Dioflenum framar meir. Hier til þenktu, mijn Sal! Og vert i Dag Astundunarsøm i Erfidenu, so sem i Skickun þijns HErra, og þacka honum af Hiartans Fognude fyrer þijn Vistaskipte þesse, ad af Syndarennar Ambatt, hefur hann giordt þig sijna Ambatt, hvors vegna þier ber ad audsyna honum sierdeiles skoora Hlute: Audmykt med Lotning, Heidur, Elsku og Hlijdne.

1. Skalltu audmykia þig under hanns volldugu Hond, og kannast ecke einasta vid þad, hañ sie þinn HErra, enn þu hanns Ambaatt, helldur, laat þar með þijna Medkienning einnig i Lioose fyrer Monnum, i ollum Stodum, og aa ollum Stundum, segiande so daglega: Siá! Eg em Ambátt DRottenns! Beigdu bæde Hiarta þitt og Lijkama fyrer honum, nær þu kiemur fram fyrer hann i Bænum þijnum; Medkiendu fyrer honum, þad þig i Þioonustunne uppaa brestur, og bid hann ad fyrergiefa þier þijna Breste.

2. Skalltu heidra hann og lofa fyrer sijna Vernd og Atvinnu þaa, sem hann miklu framar veiter þier, eñ saa goodviliugaste Hwssfader, og haf gooda Von til hanns, ad þesse himneske HErrann, mune þier, sinne Ambaatt, enn framveges fyrer siaa ollum þarflegum Hlutum.

3. Attu ad syna honum Elskuna af ollu Hiarta, sem þig elskar i allann Maata, gled þig af þvi þu ert hanns Ambaatt, og haf stærsta Yndæle af þvi honum ad þioona; Lijda skalltu honum Aminningarnar, og vert Þolenmood under hanns Hirtingu, vilie hann hana aa þig leggia; Ottastu ad styggia hann, enn kieppstu, sem mogulegt er, ad giora hanns Vilia, befala honum Framfor Ydiu þinnar, og laat þier vel lynda, hvornig sem hann lætur þier heppnast, þvi þu ert hanns Ambaatt.

4. Og ad sijdustu, skalltu med allre Æru honum hlydug vera, og mundu þad, þu briooter ecke hanns Skipaner, gior. sem þu megnar, epter hanns Bodordum, so þier verde epter hanns Lofordum.

II. Hugleid þu, mijn Saal! Ad sw heilaga Jomfrw, ei alleinasta medkienner sig DRottenns Ambaatt vera, helldur epter þaa Medkienning, bidur hun, ad sier mætte verda epter DRottenns Ordum, sem Engellenn bodade henne; Sia! seiger hun: Eg em Ambátt DRottenns, verde mier epter Orde þínu! Hier af, skalltu, Saal mijn!

1 Hugleida, hvad gott þad sie, ad vera i Pioonustu Guds, og meiga so vid þvi bwast, ad verda fyrer Sannleika hanns Naadar Orda, sem skien eru til þeirra, sem eru hanns trwer Pioonar og Ambaatter; Þu aatter i Giær, ad þioona Gude þijnum, i hanns Hwse, med ødru hanns Pioonustu-Foolke, og heyra þar af Munne Kiennemannsens gledelegann Bodskap, um hanns Naad og Blessan, hvar til þu aatter med klocku Hiarta so ad svara: Eg em Ambaatt DRottenns, verde mier epter Orde þijnu, þvi Bodskapur hanns Naadar-Orda heyrer einasta til hanns Þenurum; Þessu skalltu nu ecke helldur so fliootl hafa gleymt, ad þu muner nu ecke til ad segia vid Gud þinn HErra: Verde mier epter Orde þijnu, aadur þu gengur til þijns Er-

Erfides, ſo þu bæde i Dag, og adra Erfides-Dagana, gleymer þvi ecke i þinne Þioouſtu, ad þu ſiert Ambaatt DRotteñs, og hønum ſo þañig handgengen, bidier hann ſijfelldlega, ad þier mætte verda i ollum þijnum Athofnum, epter hanns Nadar-Ordum, hvor þier eiga ætijd i Minne ad vera og Ihugan, og þar æ moote þetta Svar:. Verde mier epter Orde þijnu, ſo ſem þitt daglegt Ordtak, hvar med þu bidier hann ad hiælpa þier, vernda, forſorga og bleſſa þig, hvad ſem þu ydiar. Athuga,

2. Ad Guds Ord eru tvennſlags: Logmæled og Evangelium, edur og lijka Hootaner og Fyrerheit;. Epter Logmælſens Hootunum, edur Guds Ognanar-Ordum, verdur þeim Ogudlegu ſem ecke vilia Gude þioona, og i ſijnu Embætte eckert til hanns huaſa, þad, ad ſo ſem ad þeim leitar oll Ogiæfa ſtundleg og eilijf. Sie þar fyrer i Dag þetta þitt Varnar-Ord, æ moote allre Olucku ſem ad þier ſæker: Sia! Eg em Ambaatt DRottenns, uppæ þad, þier i þijnu Stande ecke verde epter hanns Hootunar-Ordum; Enn DRottenns Þioonum verdur jafnan epter hañs Fyrerheites-Ordum, i þeirra Tolu keppſtu ad vera alla þijna Æfe. Þioonuſtumadurenn horfer uppæ Hendur ſinna Yferbodara, og Ambaatten æ Hendur ſinnar Hwſsmoodur, þar med teiknande ſig vera under þeirra Vallde og Stioornan, og þvi ſo ſem epterbijdande þeirra fyrerheitenne Forſorgun; Eins

stand Þu, Sæl mijn! Fyrer Þijnum DRottne, med odrum hanns Þenurum, og syn Þig ad vera hanns Ambætt, og bid, so Þu mætter niootande verda hanns Blessunar epter hanns Ordum. J hanns Fyrerheites-Ordum giættu ad tveimur Hlutum, Mystun og Sañleika. Af Mystunseme hefur hann lofad Þvi ollu, haň Þier fyrerheited hefur; Enn af sijnum Ouñbreytanlegum Sannleika, ender hann allar sijnar Loføaner, vid Þa, sem ecke fra honum falla. Vid erum, Sæl mijn! J Þeirra Tolu ad sonnu, sem hann hefur Mystunar Fyrerheit bodast læted, enn ad vid getum so stadfost staded i hanns Þioonustu, ad Sannleike hanns Fyrerheita a ockur hryne, Þad er ecke i ockar Vallde nie Vitund, Þvi ætte Þetta ad vera ockar sijfelld Bæn til Guds; Verde mier epter Orde Þinu! Þar fyrer, giættu enn ad tveimur Tijmum, stundlegum og eilijfum, a hverium HErranns Orda Sannleikur auglyseft, bæde hanns Hootana og Fyrerheita; Þo Þu gyrnest hanns Fyrerheita i Þessu Lijfe ad verda niootande, skalltu læta Þa Gyrnd Þijna vera rijkasta, ad Þaug mættu a Þier uppfyllast i odru Lijfe, Þvi allt er gott ef Enderenn er goodur; Þo Þu hrædest stundlegar Hootaner, hrædstu Þo mest Þær eilijfu, Þvi hvad er hraparlegra, enn eilijfar Ofarer? Þad stundlega Þrytur, enn Þad eilijfa Þrytur alldrei.

III.

*III.* Hugleid þu, lokſens, Almættes-Krapt Guds Orda vid þig, og alla Menn fram komenn, og þad i tveimur Hlutum, andlegum og lijkamlegum. J lijkamlegum Hlutum, kom hann fram vid þig i Skopunenne; Epter hanns Orde ertu ſkopud og i Heimenn borenn; Epter þvi feckſtu Mal, Vit og allt Atgiorſe; Epter þvi fædeſt og næreſt þu, og klemſt hia allre Olucku, og um ſijder mun þitt Lijf endaſt epter þvi; Þetta þacka þu jafnann, og kannaſtu vid Krapt hanns Orda, og hallt þig þar epter. J þeim andlegu Hlutum, kom Kraptur Guds Orda, allra dadſamlegaſt fram vid þig i Endurlauſnenne, i Verndan fra Dioflenum og Vidhallde i þvi Gooda, og i ollu ſem til þinnar Saaluhialpar kunne ad þiena. Hier a moot ſie nu þijn Aſtundan, ad trwa ollum hans Ordum, og þier faſtlega vid þaug ad hallda, af ollum þijnum Kroptum. Þar næſt, ad haga ollum þijnum Hugrenningum, Ordum og Athoſnum, epter hanns Ordum, medann þu lifer, ſo ad þu mætter epter hanns Orde hiedan i Fride fara, med þeim gamla Simeon; Sijdann i Himnarijke, mætte oll Guds Ord og Fyrerheit a þier uppfyllaſt, og þier ſo þar, med ollum Englum og Utvolldum, hlotnaſt Guds Orda Sanleika a þier fullkomnadan, ad lofa og prijſa eilijflega. AMEN.



2. Hug-



# 2. Hugvekia.

Virdtu fyrer þier, Saala mijn! Hvad naudsynleg þier sie sw Bæn, sem Endurlausnarenn kiende þier, sem og þar fyrer DRottennleg Bæn kallast; Hün innebindur allar þær Naudsyniar, andlegar og lijkamlegar, sem þu þarft ad bidia Gude til Dyrdar og þier til Nytseme; Taktu nu fyrer þig ad athuga adra Bæn, þessa naudsynlega Maals: **Tilkome þitt Rijke.** Og mün þier synast, ad hun vel hlyde til þessum þdrum Deige Vikunnar.

*1.* Er þesse Dagur, sa fyrste þeirra virku Daga i Vikunne, og er þesse Bæn þvi sosem fagur Underbwningur til Erfidesins, bæde þessa Dagsens og allrar epterkomande Viku; Ellegar hvornig er mögulegt, ad þü, kunner þennann Vikunnar yferfallande Erfides Þwnga, under ad gaanga Ohrædd, utann þu mædur med þessare Bæn, hafer til þijn kallad Naalægd Guds Rijkes? Gud almaattugur er saa allra haavolldugaste Dyrdar Kongur, hvors Rijke og Magt er Osegianlega mikel; Under hanns Stioornan er Ohætt ollum hanns Þienurum,

þeim

þeim grandar eingen Olucka, eingver Oviner naa þeim Skada ad giora, aller þeir sem aa hanns Rijke heria, sundurtvijstrast og verda ad eingu. Jaa, sæler eru hanns Pioonar, sem fyrer honum standa, og heyra hañs Ord, hvöria ecfert vantar nie uppaabrestur. O! hvad skyllder þu, mijn Saal, Osfa þier, ad mega vera ein i Tölu hanns Ambaatta, og hanns Rijke kiæme til þijn! Hepped er þad Foolk, hvers Gud DRottenn er, saa verdur eingenn til Skamar sem honum er naalægur. Þessa Kongsins Ord eru miog kroptug, þvi hvad hañ talar hlijtur ad skie: Ad eilijfu uppfyllast hanns Naadar Ord aa ollum hanns Pienurum, og hanns Reide Ord aa ollum hanns Ovinum; Þannig er hanns Rijke aa sig komed. O hvad elskulegt er þaa ad vera i hañs Rijke! O hvad hættusamt og hryggelegt ad vera fyrer utan þad!

*II.* Hugleid, ad GUds Rijke er þrefaldt:

1. Hanns Magtar-Rijke, hvar med hann stioornar ollum Hlutum aa Himne og Jordu, og hefur sier allt undergefid; Hann rijker midt aa medal sinna Ovina, og skamtar þeim wt af sitt Ede, so þeir komast ecke lengra, enn honum þocknast, i þvi sama. Mætte þad skie, mijn Saal, þu fenger ad vera DRottenns Ambaatt, hvors þu skallt bæde bidia, og þad aastunda, og þetta hanns Rijke naae til þijn,

þar er hier olldwinges Ohætt. Hann hefur lofad ad Port Helviitanna skule eckert megna ad moote Siinum, eingenn skule þaa wr siinum Hondum slijta, og jafnvel fyrer Leonum og Eytur=Drekum skule þeim Ohætt vera. Gott er ad vera þhanns Ambaatt og niota Sannleika þessara Orda; Hvad naudsynlegt er þvi hier, hinne aumustu og vanmaattugustu Skepnu, ad bidia, þetta hanns Rijke kome til þijn, og þier, hanns undergefnustu Ambaatt, verde bæde aa Saal og Lijkama, i Hvijld og Erfide, aa Noott og Dege, i Medlæte og Motlæte, i Lijfe og Dauda, epter hanns þessum og ødrum Fyrerheites Ordum. Athuga,

2. Guds Naadar=Rijke, i hvoriu hann hiaa siinum Þienurum kroptugur er, i Naad og Mykt un siinne. Hvad hiartanlega ættum vid, miin Saal, ad kioosa til ockar Naalægd þessa Rijkes! Hvad gott eiga i hiaa honum hanns Þenarar og Ambaatter! Hvoriium ætijd verdur epter hanns Naadar Ordum. Þo þeir stygge hann, verdur þeim ecke wtskwfad, vante þaa nockud, verdur þeim þad i tie laated; Hann huggar þaa i Hormungunum; Læknar þaa i Veikendunum; Fræder þaa i Skilningnum; Audgar þaa i Fatæktenne; Hiaalpar þeim, blessar þaa og stioornar þeim aan Aflaats, og giefur þeim um siider Himnarijke, og allt þetta, epter siinum Ordum. O! Ad eg mætte i þessu Rijke heita miins Guds Þienare, þaa skyllde eg aungvu kviida,

þaa

þaa skyllde eg vel vid una, þo ecke være eg i Konganna Hollum. Ef einn veralldlegur Kongur, framfylger med allre Makt sijnum Ordum, so þaug faae Framgang i hanns Rijke, og þaa sem medteked hafa hanns Naadar Ord, þorer eingenn ad hindra; Hvad munu mier þaa kroptug verda Naadar Ord þess himneska Konungsens? Hvad mun hanns Magt volldugleg a tilsiaa, ad þaug vardveitest? Ef eckert Ord Samuels, sem alleinasta var hanns Þienare, fiell aa Jord; Hvad miklu framar munu siaalfs Himna Kongsens Ord um Alldur og Æfe stødug bliifa? Hann hefur læted eitt Maktar Ord wtgaanga til vorra Ovina, so laatande: Snerted ecke mijna Heilaga; Enn til Sinna hefur hann sagt: Hvor ydur snerter, sa snerter minn Augastein; Hvornig kann nu annars ad skie, enn hanns Þioonum og Ambaattum sie Ohætt i þessu hanns Rijke, og þeim verde epter hañs Ordum? Eda mun hann nockud lijda sijn Ord ad eingu verde? O! Nei, laangt fiærre, hañs Ord munu vara, þo Himen og Jord forgaange. Athuga Saala mijn,

3 Og ad sijdustu, Guds Dyrdar Rijke, i hvoriu sa himneske Kongurenn siaalfur situr, þad er sw eilijfa Dyrd og Glede, i hvoria Fagnadar Kongs Holl, hann mun aũ sijder, øllum sijnum trwum Þienurum og Ambaattum heimsækja, sem hier i Naadar Rijkenu hafa honum trwlega þioonad. Saa kiemst eingenn i

þetta hanns Dyrdar Rijke, sem einga Hlutdeilld hefur ætt i Naadar Rijkenu: J þessu Dyrdar Rijke eru olldwnges hanns Ord uppfyllt a hanns Þienurum, þa þurfa þeir ei leingur ad bidia; Verde mier epter Orde þijnu, þvi þad er þa skied og fullkomnad, þa þarf eg ei ad bidia: Tilkome þitt Rijke; Þvi þad eilijfa Dyrdar Rijke, er þeim þa eilijflega nælægt, og þeir þvi einnig an nockurs Adskilnadar. Og fyrst þessa RijkesensJbwdar nytur eingeñ, nema sem hier ær ad vera i Guds Naadar Rijke, þa bidia so ydugslega og an Aflaats hanns Þienarar, seigande: Tilkome þitt Rike! Hvar med þeir sierdeiles meina hanns Naadar Rijke; Tak, mijn Saal! Under med þeim, og bid um Nalægd þessa Rijkes, so þu þvi fliootar nalgest og þier sijdar hlotnest, ad na hanns Dyrdar Rijke.

1. Kiemur Guds Rijke, med H. Anda Stioornan, þa hanns Þioonar lifa epter hañs Ordum, og þar med ødlast hanns Naad.

2. Med Guds Almættes Verndan, Hiastod og Blessan, þa hanns Þioonum verdur epter hanns Fyrerheitis Ordum. Þannig gior-er Guds Rijkes Nalægd þetta tvent, ad stioorna Mannsens Lijferne, og sijdann ad veita honum Naadar Umonnun Lijfs og lidnum. Gud hefur þeim einum heited Blessanenne, sem honum þioona i Hlijdnenne, enn af þvi eingeñ getur þad riettelega, þa bidia hanns Þioonar hañ

uñ hvorttveggia i þessare Bœn, hvad þeir odlast epter hanns Ordum Nu, mijn Saal, forsooma þvi ecke þetta, og bid þinn Gud uñ Naalægd sijns blessada Rijkis, so þu mætter i þijnu Erfidé og ollu Stande, heita og vera DRottenns Ambaatt, hvorre þar fyrer allt mætte gaanga epter hañs Naadar Ordum, rijmaunlega og eilijflega.

O þu heilage Dyrdar Kongur! Eg vil fegenn vera þinn Undersaate, og bid þitt Rijke kome til mijn, þad er: Stioornan þijns Anda, og þijnar Naadar-Gaafur. Gef mier, þijnum Þræl, O! minn Gud! ad verda epter þijnum Naadar-Ordum, bæde i þessu þijnu Naadar Rijke, og i þvi himneska Dyrdar-Rijke. A M E N.



# Þridiudags Ydkun.

Had þridia Mariu Meyar Ord, i heilagre Ritningu, hiaa Lucam i 1. Cap. er sw Ost, er hun liet i tie sinne Frand-

Frændkonu Elizabeth, þar hun heilsade henne, inngangande i hennar Hws, hvør Oft vered hefur epter gudhræddra Gydinga Plagsid, er vaner voru ad segia: HEill SJertu! edur: FRidur SJe MEd ÞJer! nær hvør heilsade ødrum.

Athuga, miin Saal, nu a þessa Dags Morgne uppvoknud, hvort þitt fyrsta Verk eige ad vera, sem er: Ad þacka Gude fyrer Nætur-Verndena, og bidia hann þennann Dag i sinne Myskun til þijn ad sia; Þar sem þu gengur af þinne Sæng, wt under berann Himen, þa vit þu, ad þad er þetta synelega Tialld HErrans, hanns priidelega Hwss-Hvolf, under hvort þu gengur, þvi sia til, ad þier fare ecke so Ohæverskleg a, ad þu ecke med audmiwkre Kvediu, avarper þessa Hwssens Fyrer-radanda, þad er, almattugann Gud, med hreinne Bæn og Þacklæte, adur enn þu fer i þessu Hwsinu nockud ad adhafast. Þar nærst skyllder þu, tilbærelegann Kiærleika til Naungans i Lioose lata, med fogrum Lucku Oskum, ad þu honum Hræsnes-lauft

lauſt aarner og unner allskyns Farſællđar, andlegrar og lijkamlegrar, nivotande ad verđa, og þenk hier i, til HErranns Skipunar og þinnar Skylldu; Somuleides, til loflegs og ſoomaſamlegs Sidvana, allra velſkickađra Manna, hvorn þu aatt lijka ađ athuga, ſo þu verder ecke neinum til Hneixlunar. Þijner Naaungar eru Heima-Menn HErranns þeſs himneſka, ſem hier under hanns Tialldþake ſijna Umgengne hafa, ſo vel ſem þu; Gior þeſs vegna Hwſsboondanum þad til Æru, ad nær þu hefur hañ med þinne Kvediu aavarpad, þu gleymer ecke hanns Heima-Foolke einnig ad heilſa. Þenk aaſamt, ad med þeſſu lætur þu i Liooſe þaa Elſku, ſem þu aatt aa Gude ad hafa, ef þu Oſkar goods hanns Vinum og Þenurum, og ſyner ſo, þu einnig elſker þaa ſem hann elſkar, og þad þu vilier giarnann i hanns Barna Hoop ſinndenn verđa, bæde þeſſa Heims og annars.

*I.* Skalltu minnaſt aa þrennſlags Oſk, ſem jafnañ aa ad frañgaanga af þijnum Muñe: Til Guds, Naaungans og ſiaalfs þijns.

1. Attu þeſs jafnann ad Oſka, ad Guds Dyrd og Heidur mætte ſem betſt og meſt wtbreidaſt: Og þeſſa Kvediu lætur þu i Liooſe vid hann, þegar þu kemur fram fyrer hañ, med Lofgiord og Þacklæte, og haf goodann Athuga aa, ad ſu Kvedia verde ſem allra betſt vonduđ, aan Hræſne og Hyrduleyſis, enn ſiaa til, ad þu,
med

med þijnu illu Framferde, ecke forhindrer Guds Dyrd, helldur ad hun af þier i alla Stade wtbreidest.

2. Attu Naunga þijnum ad heilsa, þad er: Luckū og Blessunar ad Oska, og fordast illann Vana Heimsins Præla, sem annadhvort, sem Hundar þeyande til sinna Nawnga inngæanga og þaa finna, ellegar veita þeim optlega dioful-legar Olucku Oskir, þar þeir hafe þo Bodord sijns HErra wtþryckelegt: Ad Oska Fridar hvoriu Hwse sem þeir inngæanga, hvort Bod-ord þeir ad litlu legaia; J þessara Hoop læattu, mijn Sæl, þig alldrei finna.

3. Attu þier siælfum og so Goods ad Oska, þad er: Ad bidia þinn Gud sijfelldlega um sijna Nead og Blessan, þier til Handa, til hvors þu einnig af Gude bæde Bodord og Fyr-erheit hefur. Þetta skalltu þvi optar giora, sem þu ert meir þurfande, og med þvi meire Kost-giæfne, sem þu framar gyrnest allskonar Vel-ferd, þvi eingenn hefur um Alldur sitt eiged Holld hatad; Næatturlegt er ad unna Goods siælfum sier, og þvi epter ad sækia, enn illt og Onæattwrlegt er, ad vera siælfum sier vestur.

*II.* Minstu, mijn Sæl! æ tvennslags Hæattalag goodrar Kvediu, sem æ ad vera:

1. Audmiwk og lijtelæatleg.

2. Hræsneslaus og alvarleg. Audmiwk sie þijn Kvedia vid alla Menn, og syndu þeim med kurt-

kurteyslegre Kvediu, tilbærelega Lotning, og haf þier þa i Virdingum ædre, þvi þad er sialfs þijns Æra. Enn hvad lijtt margur þetta vandar, þeinkiande, eins gyllde hvornig Muñenum og allre Lijkamans Hegdan sie skickad, hvar med þeir seigast sinne Kvediu kasta frañ, er Raun ad vita, 'sem annann Osid. Þesse Ostickun sie laangt fra þier, og þo þier þyke saa ei Lotningar verdur af þier, hverium þu heilsar, þa er samt gudrækeleg Ord, og good Osk þess verdug, og so dyrmæt, ad þeim er ecke af illa vondudum Munne ad wthleypa, og blanda so Illu og goodu til samans. Med hvad audmiwku Hiarta, ætte sw guddoomlega Haatign af oss ad nefnast, edur þang himneskú Gæden, hverra vier Naawnganum Oskum, sem oss hier i aumlegustu Vesæld stadda, ætte med Taarum epter ad laanga med St. Paulo? Falslaus a lijka vor Kvedia ad vera, so oss af Hiarta þar til laange, ad Naawnganum vegne vel þessa Heims og annars. Þetta athuga, mijn Saal, so þu stygger ecke DRottenn þinn Gud, þvi eingeñ Hræsne kiemur fyrer hann.

*III.* Hugleid, ad vandadar Kvediur, eru ecke af neinum Hiegooma Vana uppkomnar, helldur eru þær fyrst befaladar af sialfum Gude, þar hann baud sijnum Læresveinum, ad veita Fridar Osk hveriu Hwse sem þeir inngeinge;

Hlyd þu i þessu þijnum HErra, so þu straffest ecke. Þar næst hafa goodar Kvediur, dyrleg Epterdæme.

1. JEsu Christi, sem kvadde med Fridar Ost Læresveina sijna, og Kvinnurnar, sem geugu fra hanns Grof.

2. Guds H. Engla: Engellenn kvadde Gedeon miøg fagurlega, lijka so hinn gamla Tobiam; Hvad hiartanlega kvadde Engellenn Gabriel Jomfrw Mariu, þa hann bodade henne Endurlausnarans Gietnad?

3. Eru Kvediurnar, af ollu goodrar Skickanar Foolke, sijfeldt Jnnbyrdes brwkadar; Þar fyrer, mijn Saal! Fylgdu Bode þijns HErra, sem þier skipar Naawnganum Goods ad Oska, hlyd honum einnig, og epter breit so føgrum Dygda Spegle; Hugsa þu lijka, ad feta sem framast þu matt, epter Naattwru Prijde DRottenns Engla, i þessu Lijfe, so þu lijkest þeim i odru Lijfe i Vegsemdenne; Vit þu lijka, ad loflegur Sidvane goodra Manna, med Guds Orde stadfestur, er skylldugt ad geymest, enn Skom̃ ad gleymest. Soomasamlegar Kvediur, eru byggdar uppa þrent:

1. Guds Dyrd, sem þier skipar ad heilsa, hvørs Nafu og Blessan þu i Kvedjunne ammin̄est, stundadu þar fyrer, so i þessu sem odru, hanns Dyrd ad auka med Athugasemd, ad þu meiger sia hana sijdann i eilijfre Roosemd.

2. Naawngans Kiærleika: Hann ydka þu aan Aflaats, so sem þann Hlut, hvørs þu maatt ei aan vera, fyrer JEsu Christi Doomstoole, og læt hann hvørke lausann vid Diøful nie Heim, sem leitast vid hann fraa þier ad grypa, þvi hann er þad besta og liöosasta Guds Barna Einkienne, saa sem gleymer ad elska Naawngañ, þann hinn sama hætter Gud ad elska. Þess vegna, mijn Saal! Elska so leinge þinn Naawnga sem þu villt ad Gud elske þig, og virdtu fyrer þier, ad Guds Elska er þijn Saaluhiaalp, og syndu bæde Gude þijñum og Naawnganum þetta Kiærleiks Merke: Goodar Farsælldar Offer.

3. Þijna og Naawngans Velferd; Þar sem good Off gengur undann, fylger optast Blessan aa epter; Fyrer eina Lucku-Off er þu aavarpar med Naawngann, fær þu adra aptur; Gott er ad kaupa Gott med Goodu; Forsooma þu alldrei þesse Skipte, þar sem þu nefner Gud af hreinu Hiarta, þar er hann, þar sem hann er, þar er hanns Blessan og allskyns Giæde. Þetta skyllder þu, mijn Saal! J þijnu Erfide þenkia. Þegar Kvediur gengu mille Boas og hanns Þioonustu-Foolks aa Akrenum, þaa var þar Guds Blessan i þeirra Erfide; Þvi hoofsamlegar og gudrækelegar sem þu umgengst i Ydiunne, þvi betur luckast hun. Good Off er good Uppbygging, eñ Bloot og Offi er ill Foreydsla, þvi gott fylger jafnan goodu, eñ med þvi Jlla getr þad ecke stadest. C 3. Hug



# 3. Hugvekia.

Hvornig skal eg nu, hin allra farsælasta og audvirdelegasta Skepna, kvedia þig so sem ber, virdulega? Þu himneske Dyrdar-Kongur! Hvornig, nema med sialfs þijns Ordum, sem þu hefur lagt mier i Munn? Þvi vil eg segia: **Fader vor! Verde þinn Vilie, so a Jordu, sem a Himne!** Hugsa þu med þier, Saala mijn! Hvad kurteyslega þier ber ad avarpa DRottenn Dyrdarennar, og vijk þvi ei fraa þessu Kvediu-Forme, sem hann hefur kennt þier. Einum Tignar-Manne vilia Menn vanda Kvediur epter hanns Gedsmunum; Eingen Ósk til Guds kann honum betur ad þocknast enn þesse. Hvad þarf ad Óska honum Sælu, sem sialfur er i allskyns Sælu, sialfur er allskyns Sæla, og sialfur veiter allskyns Sælu? Hvor Giæde kuña þaa ad Óskast þeim eilijfa Gooda? Hann er hinn allra volldugaste, almaattugaste, alvijsaste, i einu Orde ad segia, sialfum sier til allrar Farsælldar hinn fullnægianlegaste,

*I.* Skalltu hugleida, Saala mijn! Ad Gud hefur sier hiaa Monnunum skiled einn

Hlut

Hlut, þad er, Heidürenn, hvørn hann þvi ad eins fær, ad hanns Vilie verde; Þar fyrer Oska þu sijfelldt, ad Guds Vilie verde, so DRottenn mætte bæde hiaa þier og odrum faa sijnar Skylldur, og ei mætte so miog bætast vid þaa 10000. Punda Skulldena-þijna, ad þad verde um sijder Qvittanlegt. O! hvad agiæt er þesse Kvedia? Hvad vel er hun af Meistaranum JEsu Christo samsett? Nær þu heilsar Monnum, þaa Oskar þu þeim einasta Goods; enn hier Oskar þu Gude Dyrdar, hvørn þu Avarpar, enn sialfum þier og ollum Monnum allskins Giæda; Þvi hvad er Guds Vilie annad, enn vor Helgan? Hvad er hann annad enn æskeleg Giæde? Gud vill ad aller Menn verde Saaluhoolpner, og hann so af ollum Monnum i Himnarijke heidradur og dyrdkadur verde. Þannig er Guds Vilie; Sæll er saa sem kann sig so skickanlega i þessu Maadar-Hwse DRottenns, ad hann af Hiarta avarpar hier med þann himneska Kongenn; Sæl ertu, mijn Saal! Þaa Vilie DRottenns er fullkomnadur, þvi þaa ertu komenn i eilijfa Sælu, og farenn ad prijsa þann eilijfa Dyrdar Kongenn. Illt og Osæmelegt er, ad gaanga so druslalega under þetta fagra Himen-Tialld DRottenns, ad avarpa hann med eingre Kvediu: J þessu þarftu ecke ad Ottast þitt Faafræde, þvi saa himneske Lære-Fader med þaa lærdu Twngunna, min JEsus,

 hefur

hefur lagt þier Ord i Muun, hvad þu skuler segia. Þu þarft og ecke þinn Overdugleika edur Audvirding ad hrædast, þvi ef þu framflytur þessa Kvediu af hreinu Hiarta, þa kannast strax sa himneske HErrann vid þaug Ord, og kvedur þig aptur med sijnum Nadar Fyrerheitum, hvør þa niunu stundlega og eilijflega a þier hrijna; Gack þu þar fyrer so alldrei wt under Himenenn, ad þu seger ecke: **Himneske Fader! Verde þinn Vilie, so á Jørdu sem á Himne!** Og þad med Saalarennar og Lijkamans audmiwkustu Lotningu, þwsundsinnum bliwgare, enn þo þu stæder fyrer einum Konge, og værer sannproofadur: Stoorbrota Madur.

*II.* Hugleid þu, hvad fullkomlega þu att ad Oska og gyrnast ad Guds Vilie verde, sem er, eins a Jordunne hier, og hann skiedur a Himnenum. Hvad fagurlega skiedur GUDs Vilie a Himnenum? Hvad dapurlega vijda a Jordunne? Þeir goodu Englar og aller Utvallder, giora hann a Himnum; Þeir vondu Englar og gudlausu Menn, standa a moote honum a Jordunne; Aller Englar og Menn eru samhliooda, gudlegre Lofgiørd a Himnum; Enn a Jordunne verdur so stoor Mishlioodan, edur Sundurgreiningur Hlioodanna; Sumer segia: Lof þeim eilijfa Gude a Himnum; Sumer leika fyrer þeim dauda Gullkalfe, eins og Israels Lijdur. O! HErra Gud! Hvad langt

a

a þessa Heims-Dyrkun til þess, ad jafnast vid þa Himnesku? Hvad, sege eg, ad jafnast, einasta ad hafa hennar minstu Eptermynd? Lattu mig Drottenn aldrei finnast i Hoop þeirra hier a Jordune, sem þinn blessada Vilia forhindra gyrnast, hvorier moote þijnum Vilia, Naawnganum einkis Goods Oska nie unna, af einberu Kiærleiksleyse. Mijn Saal! Oska þu ecke einasta Guds Vilie verde hier a Jordunne, helldur stunda til hann framkvæmest; Elska þinn Naawnga, og Oska honum Sælu: Þeim sem Gud vill vel, attu og vel ad vilia, þvi þinn Vilie a ad vera bundenn vid Guds Vilia; Þetta sie oldwnges hræsneslaust fyrer þier! Tvo eru þaug sierlegustu Stoorhwsen Drottenns, þad eina er hanns Naadar-Hws under Himnenum; Annad hanns Dyrdar-Hws a Himnum; Þad er Guds Vilie, ad þeir sem a Himnum vilia fa hann sameigennlega ad lofa, og innbyrdis i skylausum Kiærleika hvor annann fagurlega ad avarpa, skule hier i Guds Naadar-Hwse þad sama uppbyria, og sig vid þad venia; So sem Gud hefur sina Engla a Himnenum sier til Þioonustu, hvorier ad giora, hanns Skipaner, og hanns Vilia framkvæma, so erum vier Menneerner hanns Þioonar i Heimenum. O! mijn Saal! Vertu trw i þinne Þioonustu og stunda til þad þier mogulegt er, ad Guds Vilie verde so a Jordunne, sem hann skiedur a Himnum, og Oska þess af Hiartans Epter-

laangan Oafláatarnlega þijnum Gude, ad hañs Vilie verde so a Jordu, sem a Himnum.

*III.* Skalltu hugleida, mijn Saal! Ad þo hier sierdeiles merkist Englar og Menn, og þesse sie einasta Bænarennar Meining, ad vier bidium Gud sie eins heidradur, elskadur og med hlydugre Þioonustu tignadur af Monnum a Jordunne, sem af Englum a Himnum, þa er hier jafnframt Guds saaluhiaalplegur vilie utskyrdur, sem vill ad aller Menn verde Saaluhoolpner og komest i eilijfa Dyrd, i hverre ad eru þeir H. Guds Englar. O! Ad sa Vilie Guds fullkomnest! O! Ad allar þær Osker uppfylldest sem þess Oska ad Guds Vilie verde! O! Ad Diofulsens, Heimsens og Holldsens Vilie forhindrest! Hvor Osk er gagnlegre enn þesse? Hvor naudsynlegre? Hvor sw sem optar skyllde iþrekast? Ef Guds Vilie verdur, þa gengur allt vel til, þa hafa Mennerner brennande Kiærleika til Guds, þa elskast þeir einnig Innbyrdis hiartannlega, þa rijker Guds Raad og Mykun a medal þeirra kroptuglega, þa er eingenn Odygd, eingenn skielfeleg Plaaga, eingenn Diofulsens Yfer-Raad, og eingeñ Otte nie Kvijde fyrer Daudanum, Doomenum edur Fyrerdæmingunne, helldur æskeleg Unadsemd hier, under Guds Elsku, yndæl Samvitskunnar Hvijlld, hættulaus Rooseme fyrer øllum Ovinum, gledeleg Tilhugsan eilijfrar Sælu,

og

og ad ſijduſtu annars Heims eilijf og ølldwngis fullkomenn Vellyſtar Glede. Hvornig kanntu þeſs vegna, miin Saal! Betur ad Oſka, enn ad Guds Vilie verde? Hvornig betur ad kvedia þinn Vin? Þvi þeim ſem þu Oſkar ad verda epter Guds Nꜳdar Vilia, Oſkar þu þar med allskyns Giæda, andlegra og lijkamlegra, ſtundlegra og eilijfra.

O þu eilijfi Gud! verde þinn Vilie, ſo hiꜳ oſs Mønnunum ꜳ Jordunne, ſem hiꜳ þijnum Englum ꜳ Himnum, og gef ad aller þeir ſem Oſka þinn Vilie verde, fꜳe þar uppꜳ kroptuga Bænheyrſlu. A M E N.



# Midvikudags Ydkun.

Hiꜳ Lucam Gudſpiallamanne i 1. Cap. ſtendur ſkrifad, ad Mey Maria hafi ſwngед Gude einn fagrann Lofſaung, er ſo hlioodar: "Miijn Aund miklar DRottenn. Og miñ Ande

 gladd-

gladdest i Gude Heilsugiafara mij-
num. Þvi hann leit aa Læging
Ambaattar sinnar. Siaa þu! þar
fyrer munu mig hedann af allar
Ætter sæla kalla. Þvi hañ giör-
de vid mig mikla Hlute, sa sem
maattugur er, og hanns Nafn er
heilagt. Og hanns Myskunseme
varer fraa einne Kynslood til añ-
arar, yfir öllum þeim sem hann
Ottast. Hann framde Makt med
sijnum Arme, sundurdreifde hann
Dramblaatum i þeirra Hiartans
Hugsan. Volldug a sette hann af
Stoole, enn upphoof Lijtelaata.
Hungrada fyllte hann Giædum,
enn hinum Rijku sleppte hañ ör-
byrgum. Hañ endurmiñtest Mysk-
unar siñar, og medtók sinn Þioon
Israel. So sem hañ hefr talad til
Fedra vorra, Abrahams og hañs
Af-

Af-kvæmes ad eilijfu." Þetta er fioorda Ord Mariu Meyar, i Evangelio uppteiknad.

Þesse fogru Lofsaungs-Ord Mariu, ættum vid, Sæla mijn, i Dag, kostgiæfilega ad hugleida, og læta nu þessu Verke eckert undanngæanga, þvi so sem þesse Lofsaungur er, so sem fogur Roos, i midium Orda-Kranse Jomfrwr Mariu, eda so sem ægiætur Gimsteinn i dijrmætum Gullhrijng, jæ, so sem Sool æ medal annara Himensins Lioosa, so er vel tilheyrelegt, ad vid prijdum nu hvad vid getum þennann Midvikudag, med þessa Efnes gudrækelegre Umþenkingu; Þvi æ þesse Lofsaungur ad minna ockur æ, hvad vid eigum ad giora i Dag, so sem ætijd, ad lofa og vegsama vorn himneska Fodur, sem oss so nækvæmlega gledur med Adhwkrun og Urbytingu sinnar Myskunar, og eun nu annast ockur, og þetta DRottenns Giædskurijke er þvi framar þackande sem þad er oss naudsynlegra. Heilög DRottenns Þioonusta Monnunum skipud, er tvennslags, Bæn og Lofgiord; Bænenne æ vor Naudsyn af Stad ad koma, enn Skylldan Lofgiördenne, og þar vor Þorf og Naudsyn er sijfeld i þessum Tæra-Dal, og imsar Hormwngar adþreyngia, ordsokunst vier med Græte

og Kveinan ad kalla til DRottenns, enn þaa hann hefur oss bænheyrt (þvi hann bænheyrer alla gudhrædda,) gleymum vier, þvi midur! honum þar fyrer ad þacka, edur þo vier synum oss i þvi, þaa er þad þvi nærre ei annad, eñ toomt Varaña Flapur. Þar fyrer, mijn Saal! uppaa þad Gud minn hvørke styggest vid ockar Oþackløte, nie hræsnesfullt og illa vandad Þacklæte, þaa laatum ockur i þessu hafa þaa H. Jomfrw Mariu, bæde fyrer Aminnara og Uppfrædara.

*I.* Lofar Maria sinn Gud fyrer þad, hañ veitte henne soddann Virding, ad vera Mooder ad Heimsins Frelsara; Lofa þu lijka, Saal mijn, þann sama Gud, sem þier einnig þennann Frelsara sendt og gefid hefur. Þu varst sw audvirdelegasta Skepna, hafande ecke ad telia nema til Syndar og Saurgunar, enn hañ leit aa þijna Læging, og giorde þig ad sijnum Ættmañe, so nu ertu orden Naadar-Barn DRottenns, sierdeiles ef þu heyrer hanns Ord og hlijder honum, hvar fyrer aller hanns Englar og Utvallder, munu þig stundlega og eilijflega sæla kalla; Þar fyrer aattu nu eckert Verk ad laata undann þvi gaanga ad þacka þvilijka Uppheſd þijnum Gude. Ef þu villt ad Gude þijnum lijke þitt Þacklæte, þa gior þad alvarlega, gledelega og athugasamlega, edur skinsamlega.

1. Skalltu þad alvarlega giora, þad er, bæde med Saal og Lijkama, safna þar til øllum

þijn-

þijnum Saalar og Lijfs Kroptum', ad losa þiñ Gud; Þvi innelegar sem þu i þinne straunguſtu Naudſyn bidur, þvi alvarlegar ſkyllder þu þacka, ad feingenne Bænenne. Gleymdu Verolldenne i Þacklætenu, sem þier gleymde i Bænenne; Allur þinn Maattur uppþornade, ſo ſem i Sumar Þurk, under Mootlætenu, i Bænenne, aller þijner Kraptar ſkylldu aptur endurlifna, og aa Ferd vera i Lofgiordenne.

2. Skalltu þacka gledelega, ſo þu gledier þig i þijnum Gude, ſem med ſinne Naad burttook þijna Hrygd, þu ſkallt bidia med Hrygd, enn þacka med Glede: J Hrygd ertu i Heimenum, enn med Glede verdur þu aa Himnum; Þvi ſkalltu glod, mijn Saal! Þacka þijnum Gude, ſem þig hefur til þeirrar eilijfu Gledeñar ætlad, til hvorrar hann vill þu hier i Vonenne finner, þo ſkal þad hvorke nie maa nein veralldleg Glede vera, helldur andleg i Gude: Saa er ei gladur i Gude, ſem i Veralldar fallvalltre Lucku gledſt: Vertu ſijfellt i Gude gladur, þo þu græter i Holldenu: Sie JEſus allt þitt Ynde, fyrer hvorn þu aatt alla þijna Daga Gude med Glede ad þacka, fyrer hann fær þu eilijfa Glede til hvorrar þu aatt ætijd med Glede ad hlacka: Saa þackar ecke trwlega Velgiorningenn, ſem ei gledſt af honum; Laattu Gud i Þacklætenu ſiaa þinn Hiartans Fognud, hvorium þu ſynder þijna Harma, ſo þu finner bæde til Saara og Grædſlu. Þegar Gud reideſt, titrar og bifaſt Jorden,

Jorden, þaa hiadna allar Skepnur, og verda ad Dupte; Þaa Gud er myskunsamur, endurlifna þær allar. David dansar fyrer JEsu Fyrermyndan, Sattmaals Orkenne, sosem fyrer þeim myskunanda Gude, fyrer nu sengnum JEsu Gude og Manne; Danse og leike þinn Ande, so sem fyrer veittu Himnarijke, med sannre Þackargiørd, alla Daga og Nætur.

3. Skalltu þacka med Skinseme, sem Maria giørde: Hun veit fyrer hvad hun skal þacka. Gud hefur fyrer laungu forþenad af oss Þacklæted. Sumer vita ei hvørs þeir eiga ad bidia, so sem Mooder þeirra Zebedæi Sona; Þeir kuña og ei vita, hvad þeir eigá ad þacka. Þvi ad eins lofar þu Gud med Glede, ad þu hugser til hanns Velgiørninga, þackadu þvi med Mariu, þier, af Gude veittar Velgiørder, þu maatt vel vita, fyrer hvad þu skallt Gude þacka. Jeg vil fram̃telia ydur, hvad hann hefur giørt mier, seger David Hann kannast opt vid hvad hann þacka skal, og seger: Þad sie agiætt ad giøra Gude Þacker.

*II.* Innebindur Maria i þrem Hlutum, þad sem hun og vier eigum Gude ad þacka, sem þo er Otelianlegt, þad er: J hañs Myskun, Rettlæte og Sannleika, þad megum vier af henne læra, og þess hafa Guds Born alla Tijma giætt. Þackadu þar fyrer

1. Mijn Saal, Gude, fyrer þier veitta Mysk-unseme, under hvorre þu enn i Dag ert, þad er: Þijns JEsu Forþienan, sem þier rickte upp wr Saurnum, þad er, wr Diofulsens vatns-lausre Grysiu, wr sialfu Helvijte. Þad er sw mesta Læging ad eiga heima hia Diofleuum, enn hin mesta Upphefd ad vera Heimilis-Madur og Erfinge til Himnarijkes; Þar fyrer lijt þu alldrei so Himenenn, ad þu ei prijser Guds Mysk-unseme, þier i og med JEsu Christo veitta, sem þig hefur vistad a Himnum. Þad eru mikler Luter vid þig giorder, þad gat engenn giort, nema sa sem mattugur er, sa sem giorer allt hvad hann vill a Himnum og a Jordu, og þad kunne eingenn ad afreka, nema sa, hvørs Nafn er heilagt. Hann attu þvi og maattu æfennlega lofa og prijsa, og þa verdur þitt Nafn einnig hia hønum mikels meted, og i hanns heiløgu Hondum med H. Teikne myndad, hvar af hann þecker þig so sem alla sijna; Þesse Guds Myskunseme er ecke so sem Vindurenn sem fram hia lijdur, edur sem þad vaxande og mijnkande Tungl; Hun stendur ætijd i þeirre hædstu Fyll-ingu, eins og Soolen; Hun varer frá einnre Kynslód til annarar, yfer øllum þeim sem hann óttast; Hun verdur af gudhrædddum For-elldrum so sem Arfur epterskilenn goodum Børn-um. Mijn Saal! Þackadu þetta Gude, þu hefur ad sonnu erft Syndena epter Adam, sem fra hønum genged hefur fra einne Kynsloód til

annarar,

annarar, enn miklu helldur hefur þu erft epter þinn JEsum Mÿskun Guds, og þar med hiaa slopped hialfum Adams Arfe, þad er Laununum Syndarennar, þeim eilijfa Dauda. JEsus kom i Heimenn med Mÿskunsemena nu fyrer 1706 Arum; Hvad langt var þad fyrer þijna Daga, hann munde þo til þijn: þo þu værer seint i Erfdenne, og hefur lated hana ganga Mann af Manne allt til þijn; Þar fyrer þo þu eiger nu ad deya i Dag, þa huaga þu þig vid Guds Mÿskunseme, sem þig mun flytia i Himnarijkes Hvijld og Frid; Enn lifer þu, þa hefur þu af eingre þinne Eign so miked Gagn, sem af Guds Mynskunseme, sem þier hialpar og þig blessar aa allar Sijdur: Þetta skalltu, mijn Saal, prijsa, og þacka af Alhuga þijnum Gude.

2. Virdtu fyrer þier Guds Riettlæte, sem i Grunn nidurþrycker ollum volldugum, dramblátum og ríkum Siergiædingum, og þacka honum, ad hann hefur ecke þvi strannga Riettlæte yfir þig kastad, hann hefur skylt þier under sijnum Mÿskunar Væng, enn med sijnum Magtar Arme ollu Skadræde fraa þier hrunded. Vertu ecke drambsom, þvi Gud stendur soddañ Moñum aa moote, treystu ecke aa þijna Magt, þvi Guds Tign er þo ædre; Hann lækkade Tign Pharaonis, Senacheribs og Herodis; Hvijl þu ecke þitt Hiarta i Verolldar Audnum, sem sia rijke Bwre,

helldur

helldur lát þier nægiast med þinn Gud og hanns Myſkunſeme, og þacka þu Gude fyrer þann Greinarmun, ſem hann giører mille þijn og þeirra Oguudlegu, hvørium hann wtſkwfar, enn geymer þig, og ſiaa til, þu med eingu þijnu Siergiæde þvilijkt af þier briooter; Þvi hvad morgum Þuſundum Þuſunda ſteyper hanns Riettlæte i Fordæmingar Pittenn, i hvørra Tolu þu hefur lijka forþienad ad vera, enn hanns Myſkunſeme geymer þig: Þad lát-tu þier minnelegt vera, og loſa þann Gud dag-lega ſem þvilijkt veiter þier.

3. Hefur þu lijka hanns Sannleika ad prij-ſa, þvi hann bregdſt alldrei; Þu mátt þig i Verølldenne ecke uppá neitt reida, þad er allt ſem Kongulooar Veſur; Aller Menn eru Lyge-giarner: Himen og Jord munu forgáanga, Guds Ord alleina er ſtødugt; Hann man hvad hann hefur talad: So ſkalltu einnig muna hver-iu þu hefur loſad; Hann hefur þier ſinne Rád heited: Þu reyner enn i Dag, ad hann ſtend-ur þar vid; Prijſa þu þvi med Audmykt Guds Myſkunar Sannleika, hvørn þu gyrneſt eilijflega ad prijſa i Himnarijke, þar øll Guds Fyrer-heit eru á þier ordenn Já og Amen, i JEſu Chriſto, þá Guds Hootana Sannleikur er á þeim Fordæmdu uppfylltur; Sie þad þvi þijn ſijfelld Ydia á Jordunne, ſem þu villt á Himnum ſijdar giora, þá ſier þu fullkomlega hvad þu átt ad þacka.

4. Hug.



# 4. Hugvekia.

Hugsa þu um̃, christen Saala, adur enn þu genguꝛ til Vinnu þiñar og Erfidis i Dag, ad nema Gud sie med þier i Verkenu, verde allt forgefins, og hvornig hañ hefur hijngad til blessad þig a Saal og Lijfi: Þetta skal minna þig a ad þacka honum og prijsa hanns Goodgyrne, enn hitt til ad bidia hann, so sem hann hefur skipad: **Gef oss i Dag vort daglegt Braud.** Nema audmiwkt Þacklæte gange undañ, fylger ecke rett Bæn a epter. Skamast maa Madur sijn, ad bidia Gud um̃ epterkomande Giæde, sem ecke honum þackad hefur undannfarenn Velgiorning. Minnstu, mijn Saal, hvad Gud hefur giort þier: Hann hefur sadt þitt Lijf med Fædunne, Lijkamanum Heilbrygde gefid og allskonar Velferd, enn þo heldst Saalena foostrad med Ordenu; Þetta hefur hijngad til vered þitt daglegt Braud, og þad hefur ecke brosted; Daglegt atte aptur ad vera þitt Þacklæte vid þeñan Giafarañ. Skoda nu þinn Lijkama, og oll Skilningar-Vit, skoda nu þijna Samvitsku, Hiarta og Saalu, hvort þad er ecke alltsamann heillt a Hoofi, og

DRott-

Drottenn hefur þad foostrad og þvi vidhalldsed, þvi skal nu allt þetta sig upphefia med Gladværd. Gude ad þacka, og allt fyrer honum dansa og leika i Lofgiordenne; So skalltu hugleida, hvors þu skuler sijdann bidia. Vid vilium, Saala mijn! Skoda þessa Bæn, hvad hun er af JEsu vel grundvøllud, og af morgum Ordum i saa samannspunnen, þaa siaum vid hvad vid eigum ad þacka, og hvors vid skulum bidia.

*I.* Bidium vid um̃ eina Giøf eda Gaafu. Gud er ecke neinn Kaupmadur; Hvorin skal Þurfa-Madurenn Kongenum fyrer sitt Lijf betala? Guds Velgiørder allar eru Gaafa; Hvad hefur Madurenn ad hann hafe þad ecke þeiged? Hvor er vor Forþenan? Hun er Eymd og Daude. Vier hliootum ad bidia sem Þurfa-Menn: Gef! Gef! JEsus Giædanna Utvegare hefur þad so stijlad; Þier er Ohætt, mijn Saal! Þad epter ad hafa: Gud gaf þier þinn JEsum aa moote þinne Forþenan, skyllde hann ecke, seger Guds Ande, gefa þier alla gooda Hlute med honum; Saa þiñ gefne Endnrlausnare, vill einnig þier, allshaattadar Giafer utvega, sem þu vidþarft. Hier hefur þu ad prijsa Guds Mijskunseme, hvorrar vegna JEsus er þinne Saalu til Lijfs gefenn, og Brauded Lijkamanum til sijns Lijfs, og þannig gefur Gud þier þitt Lijf aa hvor-

ium Dege, bæde Sæalarennar og Lijkamans, Þvi i hønum erum vier, lifum og hrærunst. Eru Þad ecke nukler Hluter og mikil Gæafa? Þad er mikel Nææd, Þæa Gud kallar til vor vesællra: Komed og kauped fyrer eckert! Þvi skalltu Þetta hugarlæætlega Þacka, prijsa og vegsama, Þu hefur ecke annad til, Þad er og Þijn svaren Skyllda; Þæa mæættu aptur ad nyu bidia: Gef! So ad Þu giører Þad med Audmykt, og gleymer ecke Þijnum Øverdugleika.

*II.* Verdur Þu i Þiñe Bæn fleire eñ Þig ad innefela, med Þessu litla Orde: Øss, Þvi Gud er øllum oss Mønnunum myskunsamur Giafare. Þu mæætt ecke i Bænenne, Þann H. Kiærleika fræa Þier æa Flootta reka; Øll Øsundsyke sie læangt fræa Þier: Þar skulu skie Bæner og Fyrerbeidslur fyrer øllum Møñum; Allur Guds Barna Mœgur skal bidia so: Gef oss! einn skal fyrer øllum bidia, og aller fyrer einum. Elldur Kiærleikans vid Elld Bænarennar blandadur, giører eitt Þacknæmelegt Offurs-Bæal fyrer Gude; So eigum vier ad lofa Gud sameigenlega, hvør fyrer annann og med ødrum: Vier erum innbyrdes hvør annars Limur; Allar Þiooder skulu lofa DRottenn, og prijsa hann allur Lijdur! Guds Englar Þacka Gude fyrer oss, og glediast Þar yfer, Þæa oss gengur vel; Þad giører og Mar-

ða i sijnum Lofsaung, hun þackar fyrer sig og adra. Alleinasta kunna þær Blood-Sugu Dæturnar ad segia: Gef mier! Gef mier! þær vilia allt einsamlar hafa, þær kunna og ecke ad þacka nema fyrer sig, og þo so eingenn hafe neitt annar. Mijn Sæl! bid þu fyrer þier og ødrum, þacka Gude fyrer þig og adra, Gud æ enn fleire Børn enn þig til Gooda ad giøra, gyrnstu ecke ad rijkia þæ adrer snijkia, og ei ad lifa epter annarra Dauda. Vertu i annara Mootlæte medaumkunarsamur; J þijnu Þolennmoodur Madur! haf ecke i annara Medlæte Øfund, og ecke i þijnu Dramb og Oþacklæte; Þad eykur Guds Dyrd þvi fleirum sem hann hiælpar; Vertu ecke einn epter, Gude fyrer sijnar Gæfur Lof ad syngia, honum tilheyrer Heidur fyrer øll sijn Verk; Allt hvad Andar-Drætt hefur, lofe DRottenn!

*III.* J Dag, eigum vier ad bidia og þacka, vier vitum ei hvort vier leingur lifum, uppæ Morgun-Dagenn meigum vier ecke bidia, þvi vor Þorf kann þæ ecke ad vera, enn sie hun þæ enn, eigum vier aptur ad bidia og þacka. Oss næger ecke æ Morgun þad vier etum i Dag, so næger oss ecke æ Morgun ad bidia i Dag. Vier þurfum þæ lijka ad eta og bidia; Bid þu ætijd i Dag, mijn Sæl, medann þar segest, i Dag, og þackadu lijka i Dag, so þu meger sæ aptur ad bidia æ Morgun, ef þu þæ

lifer, edur ad Þacka i Himnarijke', sie Þitt Lijf endad.

*IV.* Um̃ vort Braud, eigum vier oss til Handa ad bidia, enn ecke annara agyrnast, hier i skal oll Agyrnd langt fra Þier vera, Þvi Þeim rijku Agiornu verdur slept Ordyrgum. So skalltu ei helldur gyrnast meira enn Þu Þarft, so sem Þeir Osediande Magar, Þad er skickanlegt ad bidia um̃ voru deilldann Verd. Hier skalltu enn lijta til JEsum og hanns Forþienunar, hann er Þitt eiged Braud, vort blessad Braud, enn hanns er Heidurenn; Gyrnstu ecke hvortveggia; Eige oss Heidurenn, helldur Nafnenu DRottenns! Bid ei helldur um̃ Þijna Forþienan med Þeim Dramblatu sem fra Gude sundurdreifast; Sie JEsus vor Epterlangan og Fullnægia, enn gesum honum hanns eigenn Heidur og Lofgiord.

*V.* Er hier enn giæteslegt' Ord, **Daglegt**, Þad er hvors Dags Braud. Þad er goodur Fader, sem Þad lætur alldrei bresta a hverinn Dege oss ad næra, og rijkur HErra, hia hvorium so er Oeydanleg allra Skiepna hvors Dags Forsorgun; Þetta gengur med hanns Myskunseme Mann af Manne, og Dag fra Dege. Lattu, mijn Sal, Þinn Gud fa aptur daglegt Þacklæte, fyrer daglegt Braud og daglega Myskunseme. Mootlæted er einnig vor dagleg Fæda, og Þvi hlijtur vor Bæn einnig

ig dagleg ad vera. Vier hliootum einnig dag=lega ad ydrast, þvi vier syndgum daglega; Þar fyrer sia, hvad dagkega Guds Riettlæte nidur=steyper þeim Volldugu, Upphrokudu og Rijku, sem meira vilia faa i þessu Lijfe, enn daglegt Braud, og þad vilia ecke þacka, ad þeir faa einasta daglegt Braud. O! Mijn Saal! Þigg þu med Þacklæte þad daglega Brauded, og so sem þu þarft bæde a Morgna og Kvolld ad nær=ast, so laattu Gud faa hiaa þier eitt fagurt Morg=un= og Kvolld=Offur, bæde Bænar og Lof=giordar. Hann skipade fordum ad tilreida sier, a sierhvorium Morgne og Kvollde, eitt daglegt Offur af Lombum, Braude og Vijne, a Brennefoornar Alltarenu; So tendra þu a Alltare þijns Hiarta, a hvorium Dege, Kvolld og Morgna, eina Þacklætes og Bænar Breñe=foorn fyrer Gude, saker hanns Myskunar og Sannleika.

*VI.* Med Ordenu: Braud, meinast oll vor Naudþurft, hvoria faa himneske Faderenn betst þecker, og vier gietum ecke upptaled. Efa þu ecke, mijn Saal! Goodgyrne DRottenns framveges, enn prijsa þu ætijd Sannleika hañs Fyrerheita, sem hijngad til hefur þier ecke brugd=est; Þu hefur, mijn Saal, lijka Þorf fyrer Braud, þvi Madurenn lifer ecke af einusamañ Braude; JEsus er þitt Lijffsens Braud, og hanns Ord er þier eitt froptugt Braud; Til

þessa Braudsens lættu þig sem optast langa, og hugsa hellst til þess i þijnum Bænar Bords-Psalme, og þa þu hefur þetta Braud i þitt Hiarta feinged, þa syng med Mariu, einn fagrann Þacklætes Bords-Psalm; Gott er ad mega bidia Gud i Þorfenne, og christelegt er ad þacka honum i Nægtenne.

HErra JEsu! Vertu mier og miñe Sæla i Dag, kroptugt Forsorgunar Braud, og kroptug Ordsøk til Sælar og Lijfs Uppheldes. Kienn þu mier riett ad bidia, og bid þu sialfur i mier og fyrer mier. Stijla einnig og tilbw sialfur Lofgiordena af mijnum Munne, fyrer þa miklu Hlute sem þu mier veitt hefur, og læt þijna Myskunseme mier fylgia, og mig flytia inn i Himnarijke, hvar eg er frij fra Ogudlegra Manna riettvijsu Straffe, enn fæ ad reyna a mier Sannleika þinnar Nadar. A M E N.

# Fimtudags Pdkun.

Hess getur Lucas i 2. Cap. ad þa JEsus toolf Ara gamall, var fundenn af

**ſinne Moodur Maria i Muſterenu til Jeruſalem, hafi hun þañig talad til hanns: SOn MJnn! HVi BReytter HU SO VJd Ockur? SJaa HU, FAder HJñ Og Eg, LEitudum HArmþrwngen Ad HJer. Þetta er hid fiñta Mariu Ord.**

Þetta Mariu Ord kann ad geſa ockur, mijn Saal, gooda Epterteckt. Þar liggur enn fyrer ockur lijkamlegt Exſide; Gott være! Gud ſaknade ockar ecke wr ſinne Pioonuſtu, ſem þo aa undaun ad gaanga. Þu ert, mijn Saal, orden Naadar-Barn DRottens; Hvad opt maa ſaa himneſke Faderenn ad þier rijndre leita? Siaa nu til, ad þinn Fader finne þig ecke þar ſem ei ſkyllde, þad er, i Selſkap Dioſulſins, og mege þvi ſegia: Mitt Barn! þvi breytter þu ſo vid mig? Gud maa fyrer laungu þeſſa Uñkvortun vid oſs hafa, ſo ſem uñ Iſraels Born, ad þau eru fallen fraa honum, og þar er ecke af hañs Hende Ordſok til, þvi ſpyr hann hvad til þeſs kome, hvar fyrer vier breytum ſo? JEſus kunne vel ſiñe Moodur Andſvar ad geſa, hañ

var Þar sem hann skyllde vera, og breytte so sem hann ætte. Þinn Vilia, minn Gud, giøre eg giarnann, seger hann; Enn vier megum vorum Munne til samans hallda, kunnande ecke einu til Þusund ad svara, hiaa oss er nærsta faatt til Logvarna, eingenn vor er rettlaatur ef hann vill i Doom vid oss gaanga; Þacka þu Gude, sem jafnañ ad þier leitar, og ecke geugur ætijd i Doom vid þig nær þu illa breyter, og siaa til, þu sert hañs batnande Barn, sem vid Aminningarnar lagfærest, Þad er heilsusamlegt, og athuga þetta:

*I.* Hafde Maria stoora Hiarta Sorg, nær sa blessade JEsus var henne horfinn, eñ þo þad være fyrer hennar Vangiætslu. Siaa hvad faatt þad er sem fulltreysta maa. Lijka hrasar sa Rettlaate: Þar er eingenn stroffunarlaus medal hañs Heilagra; Lijka veiklast lærder Menn; Treystu þvi ecke uppaa sialfann þig. Hvor hann lætur sier þykia þad hann stande, gaumgiæfi sa, hann falle eige. Vor Vangiætsla er Ordsok Hryggdarennar; Synden er Sorgar-Sæde; Varadu, Saal mijn, Samvitsku þijna, þwng eru Samvitsku Vijten, þu getur ei sialf lagfært þad þu spiller, og ecke grædt þad þu særer, halltu þier þvi jafnann vid þiñ Gud og Fødur, sem þier kann ecke ad gleyma, þo Moodurenn gleyme sijnu Barne, og giættu ad, hvad goodur Gud

þad

þad er, sem ad þier tijndum leitar, og bæter
þad jafnann sem þu hefur spillt, þar vid kañ-
astu med Hlijdne og Þacklæte.

*II.* Spyr Maria: Þvi breytter þu so
vid okkur? Þetta er Kross-Hroop Mann-
sens; JEsus hafde allt hijngad til hana alld-
rei grætt: Vier meinum Gud kunne med ein-
gu Moote ad breyta sinne blijdu Asynd. Vier
vilium ætijd hafa hiaa honum somu Blijdu,
enn þo vier sieum ecke samer i hanns Þioon-
ustu. Ecke þarftu ad spyria: Hvad tilkome?
Þo þu meger graata; Leita þu ecke þeirrar
Ordsakar hiaa Gude, hann er rettlaatur, enn
vier megum skamast vor. Skoda Synder
þijnar, þær adskilia þig vid Gud; graattu þij-
nar Synder, eñ vona aa hanns Myskunseme;
Siaa hier nu hvoriu Syndernar orka: Siaa
hier einnig Myskunseme DRottenns, sem þad
banvæna Saar græder. Þu maatt spyria þig
ad Ordsok Eymda þinna, enn hann maattu
spyria ad Ordsok Huggunar þinnar. JEsus
alleina maatte spyria i sinne Kvol: Miñ Gud!
Minn Gud! Hvar fyrer yfirgafstu mig? Enn
þad þarf eingenn annar ad giora; Vid þu
Gud ad fyrergefa þier þijnar Yfirtrodslur, og
sijdann bæta þad sem þær spilltu, og siaa til
med Guds Hiaalp þu syndger ei optar, so þig
hende ei annad verra.

*III.* Undrast Maria, ad sinn Sonur skyllde sier þad giort hafa. Opt vilia Menn Søkenne læda til Guds, þad hefur Calvinistana villt; Þar tala og marger um̃ sitt Lærnleyse, þvi breiter so Gud vid mig? Gud er þier lijka vel giædskurijkur þo hann þig hirte, hann hirter þig, þvi hann elskar þig, og vill þier ecke tijna, þar vid ættu ad kannast og þvi skalltu trwa: Gud lætur alla Hlute þiena þeim til betsta, sem hañ Ottast, þar vid ættu ad kannast. Maria skilur ecke hanns Tilgæng i þessu, Guds Veger eru hullder fyrer Mannenum, þu mætt allra hellst undrast þegar Gud giædur þig, þvi sw Ordsøk er ecke hiæ þier, og þæ mættu segia: Minn Gud! Þvi breyter þu so vid mig. Moses kallar upp af Forundran: Hvad kiemur til ad DRottenñ elskar so Foolked! Og David: Hvad er Madurenn þess ad þu minnist hanns, og Mannsens Sonur ad þu virder hann so mikels! Þo undrast allsæer ad þeim vel gengur, so sem þeir vite þar Ordsøk hiæ sialfum sier til vera: Prijsa þu, Sæl mijn! Med Forundran, þæ Náð Guds er þier veitest, og seig: Minne er eg DRottenn ollum þijnum Myskunsemdum og þeim Sannleika, er þu veitter mier; Hvor er eg DRottenn, og hvad er mitt Hws, ad þu mier þvilijkt veiter.? Gud hefur nooga Ordsøk til ad undrast ad þu so illa breyter; Hann hefur fyrer laungu lagt vid þig stoora Alwd; Hann sæ alvitre HErra, hlijtur ad rædgast

um̃,

um̃, hvad hann skule meira sijnum Vijngarde giora sem hann hafe ecke giort, og undrast hvørnig hann hefur þaa swr Vijnber af sier giefed. Vertu ecke avaxtarlaus Fauskur i Guds Auglite, og ecke hriooftugt Þurrlende, þar hann so miked vid hefur þig ad rækta; Hanns Vondur sie þier til Ydrunar og Apturhvarfs, enn hanns Blijdlæte til Þacklætes og Lofgiordar; Lattu alla Guds Vidleitne nockud hiaa þier avinna; Ætijd attu ad lata þier nockud vid bregda, þaa hann snerter þig, so þu þurfer ei ad kvarta um̃, ad eckert skipest um̃ hanns Hiarta vid þijnar Bæner, og segia: Minn Gud! Þvi breyter þu so vid mig.

*IV.* Þyker þad Mariu furdan̄legt, hvørnig hun, hanns elskuleg Mooder, skyllde fyrer slijku orded hafa; Þad hugsar Mootlætes Foolked ad Gud hafe gleymt sinne Myskunseme, han̄ hafe senged kalldara Sted til sijn enn adur; Ef Gud være med oss, segia þeir, hvar fyrer gengur oss þaa so illa? Þad sveif a þan̄ krossþiaada Job; Gud breyter þo undarlega vid sijna Heilaga, hann elskar þig mest þaa hann typtar þig hellst. JEsus, af Elskunne til þijn, iſærer þig þaa sijnum Kross-Skrwda, og þaa ertu honum kiærust, mijn Saal, er hann sier a þier Hrygdar Klæden vel skarta, vertu þvi þolennmood i Mootgangenum, hann er þo Astar Merke Guds a þier, med honum kanntu ad

kaupa

kaupa Himnarijke og eilijfs Lijfs Fegurd, og þaa veitstu hvar fyrer Gud hefur so vid þig breytt i Heimenum; Mier hefur þo orded þad fyrer Goodu, minn Gud! Ad þu lijtelækader mig, muntu þaa segia: Gott er hier til ad hugsa, mijn Saal! Allt Guds Raad er þier fyrer Betstu, gleymdu þvi ecke.

*V.* Segest Maria hafa þar til Harme kostad ad finna JEsum aptur. Þegar Gud tijnest med Gledennar Athugaleyse, þaa finnst hann ecke aptur nema med harmande Athugasemd, hann vill siaa þier finnest nockud til, hañ kann þo ecke leingur ad leynast, þaa hann sier þig graata. Joseph gat sier ecke leynt, þaa hañ heyrde geted sijns Fodurs Sorgar. Og Moodurenn hlytur ad gegna sijnu Barne þaa þad grætur epter henne, enn þo hun þeige aa medann þad ber sig vel: Mijn Saal! Harmande skalltu ad Gude leyta, hvorium þu hlæande tijnder, Gud lytur þaa til þijns sundurkramda Hiarta og nædar þig; Þijn Hrygd er hanns þægelegaasta Offur; Siaa hvar til þaug goodu Taar þiena, med þeim sæker þu Gud og til þijn flytur; Hvad fogur eru þaug i hanns Auglite? Eingenn Hlutur er til med þier, sem Gude getur næd, nema Sorgen i Hiartanu og Taar Augnanna; Forsooma þetta ecke, nu er þiñ Sorgar-Tijme, enn epter aa kemur Glede-Tijmenn, Nu aattu ad leita ad Gude med Hrygd, enn sijd-

sijdann skalltu sia hann med Glede; Nu aattu ad hryggiast, enn þaa ad huggast; Þad er þier betra ad Hrygden gaange undann Gledenne, helldur enn Gledenn undann Hrygdenne, so sem skiedur fyrer þeim Ogudlegu. Ecke ber allt uppaa einn Dag; Þeir sem i Taarunum nidur saa, munu med Fognude uppskiera. Mijn Saal! Ovirdtu þar fyrer aldrei Guds Vesælinga Taar i Heimenum, þvi Gud er naalægur ollum þeim sem sundurknosad Hiarta hafa, og telur oll þeirra Taar, sem riett fyrer honum graata, so skalltu ei helldur gyrnast Glede Daga Veralldareñar Sona, þvi þeir hafa sijn Laun wtteked, og þeirra Gledelæte maa heita ei lengur vare, enn um̃ Augnablik.

# 5. Hugvekia.

Nu hlytur alla Tijma, Saal mijn! yfer Eymd þinne ad græta i Heimenum, sem er einn Taara Dalur, þar vid maattu vakna og sofna. Ef þu spyr, hvad slijku vallde? Þaa eru þad Synder þijnar, þær giora þier marga Mædu; Þær ecke einasta svipta þig Naatturu Giædunum, helldur sialfum Gude, sem er allskyns Fagnadar Ordsok: Hvad

Hvad er til Ráda? Ad bidia, þad er Huggunar Efned, og leita ad Gude med Tárum, seigiande: **Fyrergief oss vorar Skullder, so sem vier og fyrergiefum vorum Skulldunautum!** Hier verdur Gud ad taka til sinna Ráda og Rádar, þángad til er þar eingenn Linun Sálar nie Samvitsku; Þar liggur David i Tára vættu Rúme, hann misser allann Frid og alla Roo, oll hans Fæda blandast med Harme; Jeremia liggur vid ad gánga af Vitenu; Daniel ber sig aumlega; Petur hefur sárann Harm; Paulus háhlioodar upp, so sem glooande Járnum lagdur, allt er vegna Syndanna, og hafe so heilager Menn bóred sig illa, hlioote þeir ad bidia um Fyrergiefning, falle þeir opt á hvorium Dege, hvad mun eg hin aumasta Skiepna þurfa hier yfer ad kveina! O Samvitska! Samvitska! Hvad ertu Olijdannleg? Hvad sár er þinn Broddur? Hvad miog gengur þijn Ræda igiegnum Merg og Bein? Þijn siálfs Jllverk giordu þad, Gud breyter vid þig þrønglega, þvi þu breytter vid hann ránglega; Þetta eru Fortolur illrar Samvitsku. Nu, mijn Sál! JEsus hefur kient þier gótt Ráad, og vijsad þier einn goodann Veg, ad leita ad þeim myskunsama Gude, sem er, ad bidia þann Gud Vægdar vid þórn þu illa breytter, og ad fyrergiefa þier: Þad med Audmykt giort, vinnur á hanns Hiarta, þvi skalltu ad honum harmþrwngenn leita med **Mariu**, sem so leitar ad JEsu. *I.*

*I.* Hlijtur ſaa Fyrergefningar ad bidia ſem broted hefur, hann verdur ad vita hvornig hann hefur breytt, Synden hlijtur honum fyrer Sioonum ad vera, hann maa ecke ſkyla ſijnum Misgiorninge, hann maa ecke ſpyria hvar fyrer hann er ſtraffadur, helldur med Harme ſegia: Minn Gud! Fyrergefdu; So verdur Gud fundenn med þeſſare Yrdunar Boon. Sæl ertu, mijn Saal! ad þu veitſt þetta Raad, og þo ſælle, nær þu brwkar þad riettelega. Gud vill ecke þu glateſt, hann hefur ſkipad þier þannig ad ſier ad leita, hann mæner epter þier ſijnum Augum og ſeger: Mitt Barn! Þvi breytter þu ſo? Hvar fyrer villtu deya? O þaa ſtooru Naad! O furdanlega Giædſku! Goodur Gud er þad ſem lætur þig harmande ſig finna, og med þinne Hrygdar Bæn Fyrergefning af ſier kaupa; Hier maattu af Forundran upphroopa: O heilage Gud! Þvi breytter þu ſo vid mig! Þetta kañtu ecke ad ſkilia, fyrr enn þu aalijtur JEſum, hann er Underroot til þeſſa, hann leggur wt Naaded, þvi hann er ſiaalfur bwenn þetta i Lag ad færa, þvi veittu honum Hlijdne og Þacklæte alla þijna Daga; Forſooma þvi alldrei ſoddann Medal: Þu ſyndgar daglega og þar fyrer er þier daglega hætt vid ad miſſa Gud, þvi ſkalltu med þeſſare Fyrergefningar Oſk, bæde Kvølld og Morgna, ad honum leita. So ſem þinn Hierviſtar-Tijme er Synda-Tijme,

ſo

so sie hann einnig þinn Ydrunar-Tijme, so hann verde þier æfinnlegur Naadar-Tijme, og Eilijfoen Oendannlegur Glede-Tijme. Kaup þu med þeim tijmannlega. Græt, eilijfa Glede, þvi meir sem Hollded hloo i Syndenne, þvi meir skal Hiartad græta i Ydranenne.

*II.* Nefner HErrann JEsus, Syndena: Vorar Skullder, þvi Gud hefur alla Æse til Goods hiaa oss unned, og hefur þo ecke fenged nema Illt i stadenn; Og hvar fyrer breyter þu so vid mig? Maa hann segia. Þad er refsafullur Þræll, sem sitt Naudsynia Laan ecke einasta aungvu launar, helldur Illu einu, og þad er þijngsla Skulld, sem ecke betalast nema med Daudanum, og helvijtskum Kvölum. Þeir meiga hier vega wt Sylfred, eñ þar kvittast eckert med: Æ! Aumur er sa, hvorium soddann Skulld er tilreiknud, enn sæll er sa, sem hana kvitta fær, Gud hellður opt Reikning vid þig, Saala mijn, i sijnu Orde og i Mootgaangenum; Þad Registur er þaa ecke liettara enn 10000. Pund; Þvi breyter þu so vid mig? seger hann: Þaa kañtu ecke ad svara honum einu Orde; Vilie hann þreyta Log vid þig, þaa hefur hann þo rettara: Þvi losud Skulld i Skijrnenne, og þijn Synda Skulld i Lijfernenu, eru fyrer honum lioosar; Hann formerker, nær þu syndgar; Hanns Augu eru Soolunne skiær-
are,

are, og þvi sier hann allt, og þo þu villder þijna Bondsku fyrer honum innebyrgia i þijnum Hiartans Fylsnum, þa bæde sier hann þad og heyrer. Æ! hvad mættu fyrer soddann Skulld kvijdande vera? Hvad hrygg og harmande? Hvad Ottasleigen? Nu vel! eg vil finna JEsum, hann hefur Betalingenn wtlagt, eg vil spyria hann um̃ siina Piinu: HErra JEsu! Þvi breytter þu so? Og mun hann segia: Eg em hann, sem asmæe þijnar Synder vegna sialfs mijns, og eg hlaut ad betala hvad þu rænter, þvi gack nu Ohræddur fram̃ ad Naadar-Stoolnum, segiande: Fyrergef oss vorar Skullder! Þetta Naad vil eg brwka, og mun mier ad goodu verda. Syndernar mega eim̃ig riettelega Skullder heita, þad er, Sakeredur Ordsaker, hvar fyrer so margt mootstædelegt Monnunum tilfellur; Æ! þad hlijtur ad vera ill Noot, sem ecke sprettur wt af nema Eytur og Olyfian. Synden mæ heita Mañsens Fiandmadur, so þu mætt ætijd segia, nær þar kemur einhvør Olucka: Þad hefur Fiandmadurenn giort. Þwngt er ad strijda hier vid alla siina Æfe, þar fyrer er þeirre underþryktu Mootlætes Skepnu, Mannenum, stoor Þorf a þessare Bæn, ad bidia Gud, Skullder edur Saker allrar Ogiæfu, burt fraa sier ad taka. Þar sem Synden burtvijkur, þar flya med henne burt i einum Hoop, allar Ogiæfur, og epter henne aptur hlaupa til

E Mann-

Manusens, so sem Afkvæme epter sine Mood-
ur; Eg vil þvi alla mijna Hrygdar Æfe, min̄
Gud, i JEsu Nafne, bidia mier mijnar Skulld-
er og Saker ad fyrergefa, so eg hiaa sneida mege
allre Olucku, og loksens eilijfum Dauda; Þad
er swart til þess þwnga Straffs ad finna, og
þad er aunnt til þess med Syndenne ad vinna,
þad er naudsynlegt fyrer alla þess ad giæta.

*III.* Hygg ad, mijn Saal, ad JEsus
sa goode Hyrder, aa enn fleire Saude en̄ þig,
hann er allra Manna Frelsare, allra Skullda
hefur hann gollded, þvi ber hann einnig Um-
hyggiu fyrer þijnum Naaunga, og bindur þig
vid Bord i þessare Bæn, ad þu skuler eins faa
Fyrergefning hiaa honum, sem þu fyrergefur
þijnum Naawnga; Þu heimtar vijst fleira og
meira af Gude i þinne Ydrunar Bæn, enn
þinn Naawnge af þier, og þvi heiter han̄s Skulld
ecke meire enn 100 Peningar hiaa þinne 10000
Punda Summu; Og þar fyrer fær einnig saa
vonde Þioon þetta Svar: Þvi breytter þu so
vid þinn Samþioon, þar eg gaf þier upp alla
þijna Skulld? Þar fyrer hlytur allt fyrer
honum oped og Okvitt ad vera, og hann med
Kvolunum sijna Skulld ad betala; Laattu þar
fyrer, mijn Saal, þad ecke þijna Fyrergefning
hindra hiaa Gude, ad þu fyrergefir ecke þijn-
um Skulldunaut. Þad eru ill Um̄skipte ad
kaupa med Reide sinne Guds Reide, og tijm-
ann-

annlega Hefnd a sijnum Naunga, fyrer eilijfar Pijsler. Gud skigneſt þar epter, hvornig þu breyter vid þinn Naunga, hann vill so vid þig breyta; Þier a med somu Mælingu ad inmælast, sem þu mæler wt, þar skal giallðast lijku lijkt, Auga fyrer Auga, ja, Onad fyrer Onad, Reide fyrer Reide, fyrer þijna Formæling, Guds Formæling. So miked sem sw ranglata Babylon hefur giort, so tvofallded henne med Kvølum og Ecka, seger DRottenn. Vertu so i hvorn Tijma sinnadur vid þinn Naunga, sem þu villt ad Gud sie vid þig sinnadur, og þo þu þurfir meira af Gude ad þyggia enn Naungenn af þier, þa syn þu epterlangan þijna, epter Guds Nad, i þvi, ad þu siert so goodur Naunganum sem þu getur, þar Guds Nad er vid Kiærleika Naunganns so sem bunden.

O HErra Gud! hialpa þu mier ad breyta vid þig rettelega, og breyttu alla Tijma vid mig nadarsamlega, lattu mig ætijd finna þig þa eg harmþrwngenn ad þier leita, og fyrergef mier alla mijna illa Breytne, enn gef mier ad umgangast vid minn Naunga fridsamlega, og ecke illa vid hann breyta, so eg mætte fyrer þinne Mijskunseme verda bæde Lijfs og lidenn.
A M E N.



# Føstudags Ydkun.

Johannes Gudspiallamadur skrifar i 2. Cap. þaa Vijned þraut i Brwdkaupenu til Cana i Galilæa, hafi Mooder JEsu Maria so til hanns talad og sagt: ÞEJr HAFa ECKe VJn. Þetta er siøtta Ord Mariu i Ritninguñe uppteiknad.

Tak þier, mijn Saal, wt af þessu Orde eina nytsamlega Umþenking um ockar Hœttalag, hvad þad er aumt œ allar Sijdur. Etijd maa þier i Minne vera þijn Eymd og Vesæld, hvør þier sijfeldt fylger, so sem Skuggenn. Þad er miked Tilfinningarleyse, hvør hann er so sem daglega ad beriast vid Ondena, enn finnur þo þar ecke til, hann kann og eckert um sitt Mein ad kvarta. Siaa þu, so sem Liooss og Myrkurs Tijme er Ostilltur, so er þitt Luckunnar Hœttalag, hvad opt vill med Svefn-Værdenne slitna i sundur Roosemd Hug-

Hugarens? ¦ Þu veitst ecke hvort þu fær allañ þennann Dag til Enda ad sitia vid Gledenn-ar Vijndryckiu, þar kann þo ad koma Hrygd, so þu hliooter ad kvarta uñ þar sie ecke Vijn hiaa þier; Þetta skalltu þenkia so þu siert ecke ugglaus. Þar nærst hugsadu hvorium þu ått og maatt til þinna Naudsynia segia, sem er: Þeim almaattuga JEsu, og siaa til þu gaanger nu ecke fyrr til neins Verks, enn þu hafir bed-ed hann uñ þig ad siaa, hvad sem fyrer þier kann uppaa ad falla; Voga þu ecke þig til neins ad gefa, fyrr enn þu hefur fenged JE-sum med þier, til hvors þu mætter strax med Mariu kalla, þaa þig brestur nockud. Ad þetta mætte nu verda lioosara fyrer ockur, Saal mijn, þaa skodum:

*I.* Til hvorra Maria meinar, er hun seger: Þeir hafa ecke Vín. Ecke eru þad Englar-ner aa Himnum, hvoria eckert brestur aa þaa allra fullkomnustu Sælu; Ecke eru þad þeir sem hiedann eru sofnader, iller nie gooder Menn, hvorier hvorke vorra Bæna vidþurfa, nie þeirra noota kunna, helldur eru þad Mennerner, sem enn þaa i Heimenum eru, sem þeir ed þaa voru vidstadder; Hugsa, mijn Saal! Ad þad er Mannsens Skierfur i Heimenum, Eymd og Mootlæte, þad er so uñ allra Manna Lijf i Heimenum þar til þeir aptur ad Jordu verda. Madurenn, medann hann lifer, er fullur Ar-

mædu; Þetta er Kienneteikn Mannsens, þar kunna eingar Skiepnur ad græta, nema sar jardneske Madur; Hann mæ sitt Tæra=Vatn brwka fyrer Vijn. Þu ert ein i Mannanna Tolu, þvi skalltu, mijn Sæl, vita, ad þu ein ert ecke frij fra Mannanna Forlogum; Þo þu sitier i Medlætes fullu Brwkaupe, þad er i nockre Veralldar Blijdu, þa halldtu jafn snart, muner þu hlioota ad kvarta, ad þar sie ecke Vijn; Opt verdur stoor Glaumur med hastarlegre Sorg nidurslocktur, er eingenn veit fyrr enn framkemur, so sem foor fyrer Balthazar og Herode. Vertu þvi alla Tijma vor um þig, og þeink sem optast med Ugga og Otta um Heimsens Vesold, enn fest ecke miog þitt Hiarta vid hanns Blijdlæte. Forhugsad Angur bijtur sijdur, þess giættu jafnann. Hier kemur fyrer Siooner skickanleg Nidurradan, þar gengur æ undann Mannsens Moolæte, þar fylger strax epter ein Bæn.

1. Krossenn kann vel ad kienna Manne ad bidia, hann tekur ad sonnu fra honum oll Raad, og allann Mætt til nockurs Bata, enn skilur honum epter Bænena, so bannar hann þo ecke allar Biarger, hann særer vijst, enn kenner þo ad finna Grædarann, þa veit Brwdkaups=þad er, Medlætes=Foolked af JEsu, þegar Vijned vantar. Mijn Sæl þetta eru good Urræde þier af Gude gefenn, og af gudhræddra Manna Dæmum eptersktilenn; Forsmædu þvi allð=

alldrei þetta Raad, þegar þu ratar i Mootlæt-ed, ad segia þijnum Gude til, hvad þig vant-ar, og mun hann hialpa þier; Gott er ad mega flya til Guds nær aliggur, og sæll er sa þad ei forsoomar.

2. Maria bidur fyrer þeim Naudstoddu: Þad er gott Epterdæme, mijn Saal! Hvoriu þu ꜩkyllder ecke gleyma; Ad bidia fyrer ødrum er good Ølmusa, græt þu med Grætendum; Einn bere annars Byrde! Trwenn auglyser sig i Kiærleikanum. Saa sem fyrer ødrum af Hiarta bidur, fær JEsum til fyrer sier ad bidia, hvørs vier alla Tijma vid þurfum; Gange ødrum i moote, þad kann þo fliootlega til þijn ad renna; Kannastu þvi vid annara Kross, so sem þinn eigenn; Ecke græta nie hlæia aller i einn, þo þad heita mege so sem sameigennlegt Skipbrot fyrer oss øllum.

3. Maria kvartar fyrer HErranum Christo um̃ Vijnbrestenn, med audmykt og trwudu Hiarta; Hennar Dæme i þessu er gott ad epter-fylgia. Utheimtum ecke neitt af Gude med Sialfskylldu; Vor Verdskulldan er fyrer hon-um ecke nema ad græta yfer Synd vorre, og allskyns tijmannlegre og eilijfre Olucku, ad sa hia honum Glede og Velferd, er stoor Raad, hvor alldrei verdur nooglega þockud.

4. Maria bidur forsiallega, hun giører Greinarmun mille andlegra og lijkamlegra Hluta, i gudrækelegum Athuga. Þegar hun villde a

 sier

sier sannadest þad stoora Guds Fyrerheit, ad hun skyllde verda holldleg Mooder ad Guds Syne, sagde hun: Verde mier epter Orde þijnu; Enn epter þvi hier var lijkamlegs Gooda ad Leit ad fara, tilmælest hun ecke med Bænarforme, helldur Um̃kvortunar, viliande þo giarnann ad HErrann hier Boot a rade. Hvorke ber oss ad vera ofdiorfum vid Gud vorn, eins og Jsraels Lijdur fordum, og ecke helldur Vantrwudum, eins og Achab; Þar fyrer sagde fordum einn gudhrædd ur Madur: Ad eckert være vandasamara, enn ad bidia Gud, og eckert þo Avaxtar betra þegar þad være rettelega giort.

5. Maria reidde sig i sinne Bæn uppa JEsu Almætte og hanns Elsku, Almætte hanns efade hun ecke, vegna þess, sem hun hafde af honum og um̃ hann heyrt og sied; Elsku hanns hafde hun margreynt, bæde i sinne Um̃gengne vid hana og adra, so virdtest hann ad þiggia Tilbod Hioonanna til þeirra Brwdkaups; Gott hlaut Abraham af þvi fordum, hann baud Gude til Matar. Almætte Guds skyllde eingenn efa, hanns Hond stytteſt ecke sijnum Elskendum til Hiælpar; Hann kann allt yfergnæfannlegar ad giora, helldur enn vier bidium edur skilium; Þess vegna, sa sem bidur, hann bidie i Trwnne og efest ecke. Gott er ad vona a DRottenn og prijsa hanns Almætte.

6. Maria rædslagade ecke vid adra fyrr eñ hun kom til JEsum, framsetiande fyrer hann þessa Raudsyn uñ Vijnbrestenn; Giœtum ad og epterfylgium hennar Dæme i þessu sem odru christelegu. Guds Rædgiafe hefur einginn vered, hanns Rad stendur stodugt, þo oss breste Rad og Adburde i vorum Vidlogum, þa hefur Gud noog Rad, þaug eru oss einnig hollust. JEsus kallast i Ritningunne: Hiælpræd; Þad Nafn og Æru Titell iñebindur allra Raudsynia-Boot og Lagfæring; Diofulsens, Hollds-sens og Heimsens Ræd eru skadsamleg: Varast þaug, christen Saala, enn epterfylg Radum DRottenns, þad verdur þier uñ sijder til Glede og Frelsunar, fra ollum Skada og Olucku.

7. Maria kvartar einunges uñ Vijnbrest i Brwdkaupenu, þo hun meinte, þar sem Vijned þraut, munde Glede Bods-Manna dofna, og Ovirding Hioonanna þar epterfylgia. Vijned gledur Mannsens Hiarta, seger David, þad meinar hann lijkamlega, sie þad hoofsamlega drucked, so sem Postulenn bijdur. Þetta sannast a þeim sem a þvi Kost eiga, enn vid, Saal mijn! skulum jafnann leita ad þvi Vijne sem alldrei þrijtur, og ecke einunges ordsakar tijmannlega, helldur eilijfa Glede, hvad sem hier i Heime til Mootlætes edur Hrygdar tilfellur. Ecke verda aller fyrer þeirre Virdingu, ad vera bodner til veralldlegra Brwdkaupa, þaug til-

falla ei helldur daglega, einnig hafa ei helldur aller sem sig gifta, Raad edur Efne til, þaug ad underbwa. Vor goode Gud er sa, sem epter Rijkdoome sinnar Dijrdar, hefur æfinnlega Veitslu tilbwed hier i Heime, og hvorier sem þad Brwdkaup verduglega sitia, medann hier dvelia, þeim hefur Gud einnig tilbwed eilijft Bordhalld med H. Englum og Utvoldum i Himnarijke. Þetta Brwdkaup hefur hann tilbwed Syne sijnum, og þad med dijrmætum Kriddum af klaaru Vijne, af Feite, Merg og dreggialausu Vijne, til þess bijdur Gud morgum lijka daglega, þo. naa ei til þess aller, þvi Bode sæta ei helldur aller. Enn þu christenn Saala, kannast vid Guds Naadar Bod, hvort til þijn er komed i Evangelio, til ad medtaka Guds Naad og JEsu Forþenustu, med Heil. Anda Uppfræding og Huggunar Tilbode, ef þu þetta Bod ei forsoomar, nie foragtar. J þessu Efne giættu jafnann ad tveimur Hlutum: Guds. stooru Naad, og þinne Þorf. Ef þu ert af siaalfum þier i auvæianlegu Medlætes Brwdkaupe, þaa mætte sannast aa þier, ad heilbrygder hafa ei Læknarans Þorf, enn siertu bæde voladur og alls Goods þurfande, enn vanmaattugur þier þad ad veita, þaa er athugande, ad þessu Bode DRottenns ei neiter, þvi þad er stoor Vogun, og kann epter sig leida eilijfann Vijnbrest og Kvala Þorsta, sem þessa Naadar Bods Forogturum er fyrerbwenn; Hugsadu alldrei þu

kynner

kunner ad sækia Þijna Anægiu til Þijn sialfs, leitadu Þvi DRottenus medann hann kann finnast, Þigg med Audmykt og Þacklæte hanns Naadar Bod hier i Heime, so Þu fæer ad heyra og efsta Dege hanns Dijrdar Bod, til Þess himneska Brwdkaups Lambsens, og mega Þar dryckiadur verda af Straumum eilijfrar Vellystingar.

*II.* Minnstu Þess, christen Saala! ad Christus nefner sig Vijntre, enn sijna Atrwendur Vijnkviste sem honum eru innplantader, fyrer sanna Trw, og alvarlegann Kiærleika til hanns og Naawngans, Þeir Þurfa ei um ad kvarta: Ad Þeir hafe ecke Vijn, Þvi sw Huggun, med hvorre H. Ande Þaa daglega dryckiar wt af GUds Naad og JEsu ForÞienustu, skilur alldrei vid Þaa, helldur framganga Þeir jafnann med glödu Hiarta fyrer Gude, hvad sem Þeim tilfellur, Medlæte edur Mootlæte, enn Þeir Þurru og trwar vokvalausu Kvister, Þo Þeir Þykest um stundarsaker hafa hier i Heime noog Medlætes og Glede Vijn, munu samt, Þaa alls mannlegs Hollds' Upprisa skiedur, heyra Þaa Þrwngu HErrans Alyktan: Alldrei Þekta eg ydur, fared fraa mier aller Illgiorda-Menn; Hallt Þier Þess vegna vid JEsum, Þvi hann er ollum sijnum Elskendum tijmannlegur og eilijfur Glede-Auke

*III.*

*III.* Minstu, ad æ þessum Vikudege, var þinn Lausnare JEsus, i sinne Kvol under Krossfestinguna, med Myrru blondudu Vijne dryckiadur, enn þu gyrnest af heilnæmum Dryck endurlijfgadur ad verda i þijnu Erside, bæde Mootlætesens, og i þinne Embættes Skylldu, bid þu JEsum ad gefa þier þad Vatn, sem þier verde framflootande Brunnur til eilijfs Lijfs, hugga þu þig jafnann vid hanns Pijnu, so opt, sem þu finnur til Mootlætesens Beiskleika i Sœlu þinne og Lijkama, segdu so: Miñ Frelsare! Eg þarf nu þijns Vijns vid, mig laungar epter þier og þinne Huggun! Hann mun svara þier: Ottast þu ecke, i Heimenum hefur þu Hryggd, enn hun skal snwast i Fognud; Halldtu þessu, þa mun eingenn fra þier taka þijna Coronu: Ad Kvollde varer Graturenn, enn ad Morgne eilijfrar Hvijlldar, kemur Glæturenn, þad verda Guds Bornum vissuleg Sanninde.

*IV.* Minnstu, christen Sœla, þad Christur seger Fognudur sie fyrer Englum Guds, yfer einum Syndugum sem Yfirboot gioror; Þar af er ad merkia, ad sonn Ydran er so sem Glede-Dryckur Guds Englum. Vid þess vegna JEsum ad snwa þier fra Vondu, enn endurlifga þitt Hiarta med sijnum kroptuga Nadar-Vokva, so þu verder ecke Vijnlaus til ad elska JEsum, æ hann ad trwa, og þig vid

vid hanns Forþenuſtu ad hugga, ſo þu ſiert honum jafnann þackl æ tur og þioonande. Fæl ecke helldur fra þier Guds H. Engla med Viijnbreſte, ſem er, Ydrunarleyſi, Oþolenmæde og Mogl under Mootlæteſins beiſkt ſmackande Bikar, helldur vertu jafnann gladur i Vonenne, þolennmoodur i Kvolenne, og ſtadfaſtur i Bænenne, þa mun þig alldrei breſta Glede-Viijn Guds Naadar hier i Heime, enn annars Heims, Glede-Viijn eilijfs Sælgiætes i Himnarijke, aſamt med H. Englum og ollum Utvoldum, Amen.

# 6. Hugvekia.

Nu ert, mijn Saal, komenn uppa þennann Foſtudag, ecke dvijnar þijn Skylda medann þu hier i Heime vid-dvelur, hennar attu ſo i Dag, ſem avallt endrarnær, ad giæta, eñ þeſſe Skyllda er innefalen i tveñu, ſem er: Ad giora þad gooda, ſem Gud bydur, og fordaſt þad vonda, ſem Gud bannar. Til ad giora Guds Vilia, knya þig margfalldlega hanns margfalldar Goodgiorder þier veittar, af hvorium þu heſur margann Glede-Vijns-Bikar drucked; Lattu þad jafnann fyrer

Gude

Gude skylduglega aasannast med audmiwku Packlæte i rettre Trw og Astundan, ad giora hvad honum er þægelegt af hreinu Hiarta, hvar til þu skallt bidia Gud um̃ Naad, og Adstod H. Anda, þaa muntu med þessu fyrer Gude fram̃leggia sætt ylmande Dryckiar Offur, hanns Engla gledia, og þier sialfum underbwa Glede i Gude, hvad sem þu reyner hier i Heime, og annars Heims hiaa honum ødlast eilijfa Glede. Til ad fordast þad sem Gud hefur bannad, þarftu stoorann Athuga aa þier ad hafa, þvi margt kann þig fraa þvi gooda ad hindra, og til hinns vonda ad aafysa, enn þu ert sialfur vanmaattugur moote þvi vonda ad standa af sialfs þijns Krapte; Endurnya þvi fyrer þier þijna goodu Bæn, Fader vor, og les hana fyrer Eyrum DRottenns, aadur enn þu til annara Verka gefur þig nu i Dag, og um̃ þenktu aa þessum siotta Vikudege, hvørs þu af Gude Oskar i siottu Bæn DRottennlegrar Bænar, þar þu so les og bidur: **Eige innleid þu oss i Freistne.** Og athuga þetta:

*I.* Um̃ vorn einka Endurlausnara JEsum Christum, stendur skrifad i Ritningunne: Ad hann hafe hier i Heime freistadur vered aa allann Haatt, so sem vier, þo aan Syndar, og þess vegna er han̄ trwr, og yfirgefur ecke sijna Elskendur i Mootlætenu edur Freistingunum

unum. Haf þu, mijn Saal! þier i æfiñlegu Minne, JEsu þwngu Freisting, er hañ þiña vegna leid og afstood i sinne Kvol og Pijnu, og bid hiartanlega þiñ himneska Fødur enn i JEsu Nafne, ad hann legge ecke meire Þwnga Freistinganna uppa þig, enn hann veit og sier þu getur bored, helldur ad þu geter vel stadest, og uñ sijder yferunned. JEsus, vor Frelsare, var þwnglega freistadur af Dioflenum a Eydemorkenne, so sem Evangelium wtvijsar; Sa vonde Diofull og Andskote, er gengur i krijng sem greniande Leon, epterleitande þeim sem hann kunne ad uppsvelgia, hann mun þig ecke, helldur enn adra, frija vera lata i Heimenum, fyrer sijnum Freistingum; Þar sem hann dyrfdest ad asækia Hofudid vort, HErrann JEsum Christum, hvornig skyllde hann þa hlijfa oss hanns veiku Limum? O! Hvad margann Gaasum gæddum, hefur Diofullenn med sijnum Freistingum slisad? Dæme finnast þar til noog i Guds Orde, bæde vorra fyrstu Forelldra i Paradijs, ennig Aarons, Davids, Salomons og annara fleire; Mijn Saal ecke ertu þessum betre nie styrkvare, þvi skalltu ecke dyrfast ad wtgefa þig til Hoolmgaungu moote Dioflenum utann þu hafer þig adur wtbwed med Trwnne og Bænenne, so sem David fordum wtbioo sig moote Goliath; Vidied, so þier falled ecke i Freistne, raadlagde Christus sijnum Læresveinum; Þeim hanns Raadum skalltu lijka hlyda,

so

ſo mun hann þig ecke einſamla nie hiaalparlauſa vera laata; Statt u karlmannlega under Strijds-Merke þijns Lauſnara JEſu, þaa mun Dioſ-ullenn hlioota fraa þier ad flya med Skom̃, enn þu med Heidre aa honum faa Sigre ad hrooſa.

*II.* Optlega freiſtudu Gydingar Chriſti aa hanns Hierviſtar-Dogum, þad vottaſt allvijda i Evangelio, ſtundum med Verkunum, enn þo optar med Ordum, og ſijnum diwpu Spurn-ingum er þeir fyrer hann fram̃ſettu, hvad marg-er hafa af Heimenum freiſtaſt, lockader af hon-um, med ſætum og vingiarnlegum Ordum, og illum Epterdæmum til vondra Verka. Vertu vor um̃ þig, Saala mijn! Og bid Gud ad vernda þig fraa vondra Manna Selſkap, og vondum Epterdæmum, þvi ad med goodum, kanntu good ad vera, enn med raangſnwnum, raangſnwenn, hlaup þu ecke med Þioofnum, drag ecke Oked med Vantrwudum, ſit ecke i Raade þeirra Ogudlegu, þeir eru ei aller Viner ſem under Augum hlæia, þad ſannadeſt aa Judas vid Chriſtum, Joab vid Abner og Amaſa og Dalila vid Samſon; Ecke fer nu Verolld-en batnande, helldur koolnar Kiærleikurenn og Raanglæted yfirgnæfer, epter þvi ſem Chriſtur hefur fyrerſagt oſs, til Varwdar og Underbwn-ings til hañs Tilkomu-Dags; Les þvi af Hiarta þeſſa Bæn fyrer þijnum himneſka Fodur, ſo þu faller ecke i Sid med þeim Ogudlegu, og

verder ecke Hluttakare þeirra Launa, i Dijkenu sem vellur af Bike og Brennesteine, helldur ad þitt Hlutskipte mætte verda med þeim Heiløgu a Lande lifande Manna.

*III.* JEsus vor Frelsare um̃geckst hier vian Syndar, eñ kom hijngad synduga Meñ sæluhoolpna ad giora, þo nioota ei aller hanns Forþenustu, Ordsok þar til er sw, ad þeir freistast af sijnum Sæluhiaalpar Ovinum, sem eru Diofullenn, Heimurenn og Hollded, hvorier þa i Syndena fella, og wr Syndenne i Olucku og Fyrerdæming nidurstepypa; Þesser falla fra a Freistingar-Tijmanum, og deya so wt af i Ydrunarleyse og Orvænting; Uppa þad þig þetta ei hende, vak jafnan yfer þijnu Hollde, ad þad tæle þig ecke til Synda og Lasta, og bid Gud yduglega, ad þu leidest ecke i Freistne, sem þig kann ad fordiarfa, helldur þo þu hliooter Freistingum ad mæta, epter Guds Raade, Vilia og Lydun, þa mætter þu stodug blijfa til Æfeloka, og um̃sijder i Himnarijke eilijfum Sigre hroosa, og Oendanlega Dyrdar Coronu wr Bijtum bera.

Minn goode HErra JEsu! Vertu jafnañ mijn Huggun og besta Athvarf i øllum mijnum Mootgange, og lat mig ei freistast yfer Megn fram, helldur lat mig stoduglega a þig Trwñe hallda og goodre Samvitsku, so mitt hid sijdasta verde mier, fyrer þig, gledelegt og farsællegt. A M E N.



# Laugardags Ydkun.

Gudspiallamadurenn Johannes skrifar, ad i Brwdkaupenu til Cana i Galilæa, hafi sw signada Mey Maria so talad til Pioonustu-Mannanna: HVad HEllst HAnn SEger YDur, PAd GJored. Þetta er þad siøunda Ord Mariu, sem Ritningen umgetur hiaa Johannem i 2. Capitula.

Eptertakanlegt og til Epterbreytnes naudsynlegt, er þetta Mariu Meyar Ord, mijn Sæl, hvørt med rettu ætte jafnann fyrer þijnum Augum ad vera, og i þijnu Hiarta, hvad sem þu villt adhafast, edur i hverre Stiett sem þu lifir, og i hvøriu Stande þu ert, Medlætes edur Mootlætes, Yfirbodunar edur Undergefins, i Fride eda Ossookn, i Sælu edur Vesæld, i Fagnadar edur Hryggdar Sæte,

Sæte, i Farsældar Lijfi edur Daudans Angist, vid hvorn sem þu ætt þa Ordum edur Verkum ad skipta, edur hvørt þad æhrærer andleg edur lijkamleg Efne, epter þvi sem Spæmadurenn seger: Þad er ecke i Mannsins Valde ad greida sijna Gøtu, og vier erum af vorre spilltre Nætturu sem villuræfande Sauder, hver einn vill ræsa æ sijnum Vege; Vier verdum einatt i Mootlætingunum Urræda litler sem Josaphat Kongur, og stundum Rædaslæmer sem Judas, þvi er oss af þessu Orde athugande: 1. Hvør skipar. 2. Hvad hann skipar, 3. Hvorium hann skipar. 4. Til hvørs hañ skipar. og 5. Hvad skyldugt edur naudsynlegt er þeirre Skipun ad hlijda og epterbreyta.

I. Til hvørs ad Maria meinar i þessu Orde, edur Rædlagning, þad wtvijsar Gudspiallamadurenn, sem er, til sijns blessada Sonar JEsu Christi, uñ hvørs Goodvilia og Almætte hun ecke efade, helldur talade hun þetta Ord, af trwudu og þolenmoodu Hiarta, med stærstu Hlijdne og Hoogværd, kiennande hier med, ad þesse JEsus være sa, hvorium med hanns Fødur og H. Anda bære ædstann Heidur og Hlijdne ad syna, epter þvi fyrsta Guds Bodorde, sem epter margfolldum Skipunum DRottenns, bæde i Sida Løgmalenu og Evangelio auglijstum, hvoriar allar i þessum tveim Hlutum, so sem i Sum̃u innebindast mega er

so hlioода: Trw þu riett og stadfastlega, og lifdu jafnann gudrækelega og christelega. A Gud almœttugann hafa aller Menn fulla Ordsok ad trwa, þriggia Hluta vegna sierdeiles, sem er, Skopunarennar, Endurlausnarennar og Helgunarennar, og DRottenns Giœdsku; sem i þeim Hlutum dœdsamlega og fagurlega skijn og sig auglijsir. Gott er sig ad ydka i þessum Skoola Guds Nœdar, þad styrker Trwna, gledur Hiartad, og upphvetur Viliañ, til ad blijfa stadfastlega vid gooda Von þœ, ad sœ sem hefur uppbyriad vid oss Meñena þad gooda Verked, hann mun þad framkvœma. Ad lifa rettferduglega og gudlega, œfysa oss þesser fioorer Hluter: Guds Skipaner, Guds sijfeldar Goodgierder, allra Skepna œ Himne og Jørdu stadfost Hlijdne vid sinn Skapara, og þau goodu Not sem þeim Hlijdugu eru af Gude fyrerheiten. Þesse goodu Lijfgros fær þu, christen Sœla, allmørg ad siœ, og þeirra sœtu Lukt ad finna i Guds Orda Aldingarde; Haf þar fyrer þijna andlega Umgengne i honum sem optast, þœ muntu siœlfur bloomgadur Vidsmiørs Vidur vera i Hwsi DRottenns, og treysta uppœ hanns Myskunseme ad eilijfu.

*II.* Hvad Gud sœ dyrdlegaste HErra skipar, er oss Mønnunum skylldugt ad giøra, þvi i honum erum vier, lifum og hrœrunst, hañ gefur lijka Viliann og Framkvœmdena til þess gooda,

gooda, og fyrer utann hanns Adstod, kunnum vier einkes faa orkad. Og epter þvi hann er frials ad skipa hvad hann vill, og gefur lijka þeim Hlijdugu Maatt til ad giora þad hann skipar, þaa skalltu athuga, mijn Saal, ad Gud aalijtur jafnann tvo Hlute i sinne Skipan, sem er, sijna Dyrd og sijna Naad. Sijna Dyrd vill hann jafnann Oskerdta vera laata, enn sijna Naad vill hann hellst Monnunum veita, þeir eru lijka hennar hellst þurfande. Dyrdarlega skipar og skickar Gud ollum Hlutum aa Himne og Jordu, so sem David syngur: So sem hann skipar so skedur þad; Skipaner DRottenns eru rettferdugar og gledia Hiartad, seger hann i odrum Stad. Allar skapadar Skepnur aa Himne og Jordu eru honum hlijdugar, og wtskijra hanns Dyrd, nema Manneskian, hver hann hefur þo mest gott giort, og þar til henne underbwed eilijf Farsældar Giæde, og Gud vill ecke ad nockur af Monnunum glatest, helldur ad þeir aller komest til Sañleikßins Vidurkenningar. Þess vegna skipar hann naadarsamlega, fyrst Skepnunum oss ad þioona, þo Overdugum, þar nærst oss sier ad þioona, epter þvi sem hann oss i sijnu Orde bijdur, biodande oss jafnann þessa tvo Hlute ad aalijta i ollum vorum Athofnum, sem er, Guds Dyrd og vora og vors Naunga Velferd. Allar Skepnur aa Himne og Jordu lofa Gud. Vier Menneskner eigum þaa og megum vera skrekaster i

 þeirre

þeirre Lofgiørd, þvi allar þær eru oſs af Gude til Gagns og Nota ſkapadar, þær hafa ſinn aꝛ kvardadann Þioonuſtu Tijma; Oſs Moñunum er lengre Tijme af Gude fyrerhugadur: Med Skepnunum ſtundlegur Hierviſtar Tijme; Enn med Englunum og Utvolldum eilijfur Fagnadar og Hvijlldar Tijme i Himnarijke. Hugleid þetta jafnann, chriſten Saal, og vit fyrer vijſt, ad hvad þu giorer med Ord og Verk, þaa er þad Guds Skipan, ad þu ſkuler jafnann athuga Guds Dyrd, og þijna og þijns Naunga Velferd og Saaluhialp, enn hvad þu þar aa moote giorer, þar i ſyner þu Ohlijdne, hvor ad er Galldra-Glæpur; Varaſtu þvi athugalaus ad vera moote þeſſa Dyrdar HErra Skipunum, ſo þu mætter eilijflega under hanns Naad vera, og odlaſt þad hann hefur þier heited.

*III.* Þeim ſem ſkipad er nockud ad giøra, ſo þeir þeirre Skipan hlijde og epterbreyte, ber þeſſa Hlute ad athuga: Myndugleik þeſs ſem ſkipar, og Undergefne þeſs hvorium hann ſkipar.

1. Þyke þier, Saala mijn, Gud ad þier eiga nockra Hlydne, uppaa nockrar undannfarnar Goodgiorder edur Yferburde, þaa laattu þier til Hugar koma, hvoria Skyldu Gud aa til þinnar Þioonuſtu, epter þvi ſem þu kynner frekaſt i Tie ad laata. Saa ſem vill annars Skipun hlijda og Fullnægiu veita, hann verdur þetta þrent ad hugleida, ſem er: Vited, Viliann

iann og Maattenn. Vita og skinia verdur Madur, hvad Gud honum bijdur og skipar, añars dyrdkar hann Gud forgefins, ef hann af sialfs sijns Hugþotta, an Guds Skipunar honum þioonar; Þess vegna bidur David: DRotteun kenn þu mier ad giora epter þijnum Vilia: Og Samuel epter Raade Eli Kiennemanns, talade so i moot Kalle DRotteuns: Tala þu DRottenn! Þinn Þienare heyrer; Og Ste. Paull, nær Gud kallade hann til postulegs Embættes, sagde: HErra! Hvad skal eg giora? Saa sem Guds Ord vill heyra, grunda og vardveita, hann fær þar inne ad vita hvad Gud vill hann laate giort edur Ogiort, an allrar Assokunar, annars koma af Ovitsku Oviturleg og af Gude forboñnud Verk. Viliann er skylldugt Madur tilleggie i moote Guds Skipan, hvor ed oss hefur synt mikenn Goodvilia i sijnum Verkum vid oss. Sæll er saa þar vid kannast; Þad er vondur Vilie ad standa jafnann moote Guds Vilia; Hefde Gud ecke viliad oss vel, hefde oss ecke skted so dyrmæt Skøpun, sem vier a oss berum, hefde ecke Guds Sonur elskad oss, þaa hefde hann ecke so miked lided sem hann leid vor Vegna; Hefde ei H. Anda vered um̃hugad um̃ vora Velferd, og hefde hann ei opennberad oss Guds Raad og Vilia um̃ vora Saaluhiaalp, þaa hefdum vier hloted i Myrkrum og Daudans Skugga ad sitia, og i vorum Eymdum og Syndum eilijflega ad tortijnast; Lijttu þvi jafnann

ann til Guds Vilia, og haga þu þijnum Vilia epter honum, þad framast þier er mogulegt. Ef þu syner Gude Viliann, mun hann þier aptur audsyna Nææd og Elsku, tilhiælpande þier ad giora þad þu villt og honum er þægelegt. Ad geta giort þad Madur vill, þyker gott Atgiorfe; Þo vardar miked um̃, hvert þad er af Gude, og epter hanns Vilia, edur ecke; Gud lijdur um̃ Stund, enn leyfer ecke ad syndga. Morgum tekst ad fram̃koma voudum Verkum, enn þaug skie jafnann moote Guds Vilia, og leida Straffed epter sig. Varastu þvi, ad læta þinn vondann Vilia, sem til Ills er hneigdur, ræda vid þig i moote Guds Vilia. Þad er aumleg Hroosun ad stæra sig af Illverkunum, þar æ moot er stoor Æra og Samvitsku Glede ad geta giort þad Gude er þægelegt, og hlaupa so Skeided ad Madur hondle þad eilijfa Hnoss Glede og Hvijlldar i Himnarijke, nær þessa Lijfs Baræatta er endud.

2. Undergefneñ vid vorn Gud er marg skyllduq, þvi hvad vier gott hofum, þad er af hañs Nææd til vor komed. Undergefner Þienarar Mannanna fordum voru þrennslags, fyrst Odalborner, i Hwssboondans Hwse; Þar næst þeir sem keypter voru fyrer Peninga, eins og Joseph; Þridiu, þeir sem sig siælfkrafa til Þioonustu gæfu fyrer ækveded Kaup, eins og Jacob giorde vid Laban. Christen Sæla! þad er þier Glede, ad þu ert Odalboren i Hwse

ÓRott=

DRottenns, sem er hanns Christne, þess vegna skipar hann þier og seger: DRottenn Gud þinn skalltu tilbidia og honum einum þioona; Þu ert einnig endurleyst af Guds Syne, ecke med Gulle nie Silfre, helldur med hanns dyrmæta Bloode, þess vegna ber þier, frelsadre, af Hende Ovina þinna, ad þioona honum i Heilagleika og Riettlæte alla þijna Lijfdaga; So og minnstu a þinn Saattmaala vid Gud giordann, strax sem þu inngieckst i þessa Heims Vist; Þegar þu varst skyrd, lofader þu Gude þinne Þioonustu, og ad afneita Dioflenum og ollum hanns Verkum; Þess vegna seger St. Paull: Vite þier ecke, ad hvorium sem þier gefid ydur til Þioonustu, þess Þioonar erud þier, annadhvort Syndenne til Daudans, edur Hlijdnenne til Rettlætes. Gude ad þioona er stoor Æra og Upphefd, enn Dioflenum ad þioona leider til eilijfrar Skammar og Pijsla. Undergefinn Þienare a jafnann þessa tvo Hlute ad athuga, sem er, ad giora hvad Hwsshoondenn vill, og fordast þad sem hann bannar. Þar næst þetta tvent: Ad stunda hanns Gagn, enn fordast hanns Skada. J þridia Lage þetta tvent: Ad tilstunda ad faa Heidur og gott Verdkaup fyrer sitt Verk, ef trwlega er þioonad, og fordast Skomm og Straff sem svikafull Þioonusta epter sig leider; Vertu þvi trwr allt til Daudanns, og muntu odlast Koronu Lijfsins.

IV. Hvor ad sie Tilgangur DRottenns i hanns Skipunum, þad maa raada af fyrerfarande Ordum; Gott geingur Gude til þaa hann skipar, hann lætur Avoxteñ epterfylgia, ef haññs Skipan er hlijdt, hann kann allt yfirgnæfannlegar ad giora, helldur enn vier bidium eda skilium. Þad syneſt opt fyrer mannlegre Skinsemne lijtelmootlegt sem Gud skipar, enn Gud verkar þar med hiaa þeim Hlijdugu dædsamlega Hlute. Alitslijtill var fordum Vondur Mosis, enn nær hann brwkade hann epter Skipun DRottenns, wtriette hann þar med dædsamlega Hlute sijnum Ovinum til Straffs, enn Israels Foolke til margfalldra Gagnsemda. Lijtel voru Efne til lijkamlegs Uppheldes hiaa Eckiunne i Sarepta a Hallæres-Tijmanum, samt þrutu þaug ecke i 3 Ar og 6 Maanude. Lijtelsiorleg þooktu Naaman Raad Elisæi Spamaññs ad þvo sig siosinnum i Anne Jordan, þo vard honum þad til Hreinsunar af Lijkþraanne. Lijted giorer Heimureñ wr þeim Hlutum sem brwkast i þeim H. Sacramentum, þo verda þeir Retttrwudum Kraptur Guds til eilijfs Lijfs; Spyr þu þar fyrer Gud alldrei af Vantrw, edur Ovirding, til hvors þu eiger þad ad giora sem hann þier bijdur, bid hann helldur ad hiaalpa þier til ad veita honum Hlijdne, og mun hann vid þig dædsamlega sijn Fyrerheit framkoma laata, sier til Dyrdar, enn þier til Glede og Sooma; Ef þu ert trwr i litlu, muntu um sijder

sijder yfir miked setiast, og gænga inn i Fognud Þijns HErra.

*V.* Hvad skylldugt ellum Mønnum er ad giora Guds Skipan, þarf ei længrar Utskijringar vid. Skoda þu Madur siælfann þig, og skipt þier so sem i tvo Hlute, og legg i annann hvad Gud hefur tillagt þier og gefed, og i hinn, hvad þu hefur af siælfum þier; Hveriu kanntu Gude ad launa fyrer allar hanns Goodgiorder? Alls eingu af siælfum þier til, er þæ ecke skylldugt þu syner hønum Hlijdne i þvi sem þu megnar, og giorer hanus Skipan, þar sem þu mætt reiknast Onytur Þioon, þo þu giorer allt hvad hann þier bijdur? Take hann sijna Myskunar Hond fræ þier um̃ eina Stund, hvad verdur þæ af þier? Verra enn ecke neitt, þvi þeir sem fyrer utan̄ han̄ eru fyrerfarast ad eilijfu. Hvoria Brwkun hefur þu æ þier af þier siælfum til? Jlla, þvi i Syndenne ertu getenn og fæddur, og þæ þu lifer sem vest, brwkar þu þann Hlut þier er medfæddur, hvor þier Ordsok verda kann til eilijfrar Orbyrgdar; Bid þvi Gud ad Synden ei drottne i þijnum daudlegum Lijkama, helldur ad DRottens Otte og Elskan til han̄s, hallde þier stadfostum i Guds Þioonustu, þar muntu um̃ sijder deya fræ þier, enn lifa Gude, hvor ad eru þaug bestu Vijte, og ad Guds Vilie verde æ þier um̃ þetta. A M E N.



# 7. Hugvekia.

Mijn Sæl! Enn hefur Gude þocknast ad låta þig koma uppå þennann Dag, ecke munum vid nu eiga ydiulaus ad vera, sem er Stioornan Drottenns og vered hefur å Himne og Jordu, samur er Vilie DRottenns til vor Mannanna og vered hefur, hin sama er Raad DRottenns ny hvørn Morgun, og ockar Þorf og Naudsyn er hin sama jafnann, þvi er einnig ockar Skyllda DRottne ad þioona, so nu i Dag, sem endrarnær, enn ockur bægia og hindra jafnann fraa þeirre Þioonustu þesser tveir Hluter; Sem er, ockar Vanmættur, og ocker Ovina, siifeld Astriida; Þess vegna, ædur enn vid uppbyrium ockar Athafner, bidium vorn himneska Fodur ad koma til med ockur, og lesium af Hiarta fyrer hønum vora ægiætu og lijfkroptugu Bæn, Fader vor, og epter þvi vid hofum læteft hugleida, å næstlidnum 6 Vikudøgum, þær 6 Bæner, er i henne oss fyrersettar eru ad bidia, þå skilium nu ecke epter i Dag þå sioundu, hvor ed so hlioodar: **Helldur frelsa oss fraa illu.**

*I.* Athugum, miin Sæl, þad vid hofum i fyrerfarande þessa Dags Ydkun, syndt ockur

i ad

i ad hügleida Guds Myndugleika, sem hann hefur til ad skipa ockur hvad honum þocknast, þo vid hofum ei Megn til hanns Skipun ad giora Fullnægiu sem skyllde, þar med hofum vid marga Ovine, sem ockur fra þvi gooda hindra vilia, og so vid kynnum ad fordast þa og sia vid þeirra Slægdum, þa liggur ockur Magt a ad vita og hugleida, hvorier þeir eru sem oss hindra vilia fra þvi ad giora Guds Skipun; Þesser eru i sinne Veru bæde Illskufuller og ockur a Illt eggiande, þeir eru sierdeilis þrijr: Diofullenn, Holldid og Heimurenn, þesser vilia rada yfir oss, ad vier giora skulum hvad þeir vilia, enn þeirra Raad og Vilie, er jafnann gagnstædelegt Guds Vilia.

1. Gud skipade vorum fyrstu Forelldrum i Paradijs ad giora sinn Vilia, hvad þeim var sialfskylldugt, enn hvad skiede? Þar kom Diofullenn med sijn Illræde, og kom þvi til Vegar vid þaug, hvors Meniar vier þeirra Nidiar a oss berum medann hier lifum; Hvad opt hefur Gud skipad þad og þad, a ymsum Tijmum, med morgum Hattum, enn hvad marger hafa framar af Dioflenum hindrast fra þeirre Guds Skipan, enn þeir hafe henne hlijdt og epterfylgt. Ecke erum vid, Saala mijn! Þessum af Natturunne til styrkare; Ecke forsoomar sig Diofullenn enn nu a þessum Tijmum, hann geingur i krijng sem greniande Leon, og gyrnest freklega ad draga oss og locka fra Guds Skipun, Vilia

ia oa Naad. Ecke hætter hann aa sinne Asookn, þvi hann veit sig hafa stuttann Tijma; Margann hefur Diofullenn sigrad Burda og Trwar meire, enn vid erum, bidium þvi Gud vorn himneska goodgiorda Fodur ad frelsa oss fraa Dioflenum, og ollum hanns þwsundfolldum Vielum og Tælingum. Þegar David fordum geck til Einvijges moot Goliath, sagdest hann koma i moote honum i Nafne DRottenns Zebaoth, er sig munde frelsa fraa hanns Hondum. Stondum, mijn Saal, med þessare Bæn Dioflenum i moote, so mun hann hliota fraa ockur ad flya.

2. Vort Holld af Syndenne spillt og fordiarfad, og til alls Goods vanmaattugt, er einnig, mijn Saal, ockur til stoorrar Hindrunar i þvi ad giora Guds Skipan; Þess Sinne er Fiandskapur igiegn Gude, þad girnest i moote Andanum, og vckur i moote oss sijfellt Strijd, þess Verk eru opennber; O! hvad morgu Illu hefur þad ollad hiaa Mannanna Sonum, og þad giorer oss so sem bundna og faangna, so þad gooda sem vier eigum ad giora, giorum vier ecke, enn til þess vonda sem vier eigum ecke ad giora eggiar þad oss sijfelldlega; Upphroopum þvi med Ste. Paule: O! Eg vesæll Madur, hvor mun frelsa mig fraa þessum daudlega Lijkama? Enn lofadur sie Gud, sem ockur mun um sijder frelsa fraa þessum daudlega Ovin, ef vid hann þar um ydugl ega bidium, hvad vid skylldum alldrei undannfella:

3. Hvad þesse Heimur, i Synd og Vondsku nidursockenn ad Verkum giorer, i sinne Hindrun moote Guds vilia og Skipun, megum vid, mijn Sæl, daglega sia og heyra. Hann hefur wte tvo Krooka a sijnu Veidarfære, so hañ giore ockur fost vid sig og sitt vonda Athæfe, añann Krookenn beiter hann med þvi sem Holldenu sætt þyker, sem eru allskyns iller Lester, kwgande oss til ad taka þa Beitu med sijnum Fagurmælum, eins og Potiphars Kvinna giorde Joseph og Dalila Samsone, eda med Hneixlunum og illum Epterdæmum, sem er, ad hlaupa med Þioofnum og hafa Samlag og Vinattu med Jllrædes-Monnum, hvad ad er stoor Sælar-Hæske. Hinn annann Krookenn beiter hann med Beiskiu opennberra Offsookna og Yfirgangs, hvorn hann synt hefur i moote Guds Vilia og Mannanna Sæluhiælp, þar eru noog Dæme og Vitne til. Sæla mijn, vid eigum nu i Dag Gude ad þioona, sem avallt, bidium þvi Gud ad Krookar Heimsins Hreckia, feste ockur ecke nie hindre fra þeirre Þioonustu, helldur ad vid sieum jafnann fost i Nædar Nete DRottenns, giorande hanns Vilia, og huggande oss vid hanns Fyrerheit, ad hann mune uñ sijder læta oss Heimenn yfirvinna, og a honum eilijfum Sigre hroosa.

*II.* Ad sijdustu athuga mijn Saal! Ad lijka sem þesse Dagur er halldenn og reiknadur saa sijdaste i Vikunne, og hun endast med hañs Kvollde, so eigum vid lijka Von a Endalykt vorra Lijfdaga, hvort sem ockur epter holldlegum Vilia gengur med eda moote, þess vegna vitum vid ecke nema Daudenn kome og kalle ockur i Dag burt wr þessum Heime; Daudenn er vijs, enn Dauda Stunden Oviss nema hia Gude i hvørs Book aller vorer Lijfdagar eru skrifader. O! mijn Saal, bidium Gud ad frelsa ockur fraa braadum, illum og kvalafullum Dauda, so hann ei oss ofbioode, nær hañ oss heimsæker, og ad vier follum þaa ecke i Orvænting, eins og Judas, helldur wtsløckvum hanns Ogn, og Diofulsens elldleg Skeite med Bæn og Trw til DRottens, sem lofad hefur ad frelsa þaa fraa Helvijte og Daudanum sem a hann trwa. Athugum einnig daglega, medann hier lifum ad bidia Gud þar um, ad þegar Daudenn ockur ad Hondum kemur, þaa mætte hann hitta uppaa ockur

ockur giørande Skipan DRottenns, so mun hann verda ockur sætur Svefn og Inngaungur til eilijfs Lijfs.

HErra JEsu Christe! Miinn Endurlausnare, þu trúe Þión DRottenns, sem giørder Vilia þíns himneska Fødurs, og framder hier i Heime það Verk, hvørs þíner Atrúendur munu eilíflega adniótaz; Hiälpa þu mier þínum veikum Lim, ad eg epterfylge þínum Fótsporum, og stande stødugur i mínu Kalle og Embætte, bæde fyrer þier og mínum Náúnga, so eg um

síder fyrer þína Forþienustu, fáe þier,
med Fødurnum og heiløgum Anda,
i Lofgiørdenne eilíflega ad þióna!
A M E N!





# Andlegt Samtal

Trwadrar Saalar vid sin Endurlausnara, wt af hans kroptugu Forþenustu, hanns bitru Pijnu og Dauda.

Ur Þyſku a Islendſk Lioodmæle ſnwed af

Monſr: JONE THORLAKSSYNE.

Ton, HErra Gud Fader hefur ſkapt

## Saalen.

Hvors vegna fordum þvoder þu, þa Kvala Noott ad bar, Sveinaña Fætur, ſæll JEſu?

## Chriſtur.

So Dæmed Audmyktar, af mier ad læra hefder hier, og hvorſu tilreiddum bære þier, ad neyta mijns Naatt-Verdar.

## Saalen.

2. Andlaat hvar fyrer under þitt, Aptans-Verd þann tilbiooſt?

Chriſt-

## Christur.

So helldur Dauda Minne mitt, mætte þitt vekia Brioost, og so þu viter efalaust, oll mijn Verdskulldan sie þitt Traust, og Giallded Lausnar lioost.

## Saalen.

3 Hvar fyrer villder, HErra, þu, hafa þig i þann Stad, vel hvar þig fenge, visser nu, Vielarenn uppleitad?

## Christur.

Vottar þad liwsann Vilia minn, vondañ ad bæta Lifnad þinn. Fws doo eg fyrer þad.

## Saalen.

4. Hvar fyrer hefur þier þooknast þad, þijn skylde i Aldin-Reit, uppbyriast, heldur eñ odrum Stad, Angist og Kvolin heit?

## Christur.

Af þvi þijn Synd sem Illt afrijs, uppsprotteñ var i Paradijs, siw mijna Saal æbeit.

## Saalen.

5. Sveinar hvar fyrer swæsu þrijr, sem voru nalæger, i Angist þinne, DRottenn dyr! Þaa Daudinn sookte ad þier?

## Christur.

So viter þu fyrer utan Ef, einn saman jeg þig frelsad hef, og eingenn medur mier.



## Sálen.

6. Hvar fyrer Judar helldu Rád, heiptarfull þier á moot, Ótal Svikrædis Brögdin brád, bruggande af Vondsku Root?

## Christur.

Eflaust þar fyrer er þad sked, ad eg frelsade þig hier med, wr Fiandans Flærdar Noot.

## Sálen.

7. Hvar fyrer, HErra, þáder þu, þann falska Judas Koss?

## Christur.

So jeg afmáde sialfur nu, Syndina fyrer miñ Kross, sem med eitradre Svika-Flærd, af Sathan var i Heiminn færd; Feckstu þvi Frelsis Hnoss.

## Sálen.

8. Hvar fyrer varstu, HErra 'sæll, her fyrer þriátijer, Silfurpeninga, so sem Þræll, seldur gudlausum Her?

## Christur.

So jeg eilijfre Þrældooms Þrá, þijnu sem yfer Hofde lá, loks fenge liett af þier.

## Sálen.

9. Hvi munde, HErra, þreytt af þier, þrásæken Bænagiörd, med tijdu Hrope og Tárum hier, sem teppudust wt á Jörd? Chri-

## Christur.

So Guds rettferdugt Reide Baal, rannglatre hwed þinne Saal, slockte mijn Hormung hord.

## Saalen.

10. Hvi leidstu Angist, Ogn og Faar, Ofbod og Daudanns Strijd?

## Christur.

Uppa þad Gislden Synda saar, og sialfs Guds Heipt Ofþijd, a mig hlædist, eñ ecke þig, og til Svolunar skoder mig, a Hels og Hrygdar Tijd.

## Saalen.

11. Hvar fyrer beidder þu so þraatt, þier mætte lijda hia, þijns Fodurs Reide Bikar braadt?

## Christur.

Betst kañtu þar af sia, hvad orded hefde þwngbært þier, þad ad bera sem la ja mier, og þu ert frelsud fra.

## Saalen.

12. Hvar fyrer gafstu þetta þo, þijns Fodurs allt i Wild?

## Christur.

Hegdunar Form þier heilagt bioo, Hormung þa jæter gild, hvorsu liwfre þier lijda ber, lifande DRottenns Tiptaner; Ræge þier Rad hanns mild. S 3 Saal-



## Sálen.

13. Hvar fyrer dundu af helgum þier, HErra vid Daudanns Fár, Bloodsveita Hnyklar blessadar?

## Christur.

Banvænleg Glæpa Sár, so læknud yrde þar med þijn; Þesse heilnæma Bloodlaug mijn, ollum frij open stár.

## Sálen.

14. Hvar fyrer þig, minn HErra, lietst, handtaka og setia i Bond, umflwed gatst þo allra betst, Ovina Grimdar Hond?

## Christur.

So Fiotur Diofuls fielle af þier, friáls skule og lidug þioona mier, Lijf þitt og lijka Ond.

## Sálen.

15. Hvar fyrer varstu ollum af, Astvinum forlátinn; Einn og sierhvor þig yfirgaf, eins Sveina Flockur þinn?

## Christur.

So þu odladest sannann Frid, og Sameiningu minn Fodur vid, þier follnum fráhorfinn.

## Sálen.

16. Hvi þig so Petur mædde miog, Meinsære og Neitan þrá?

Christ-

## Christur.

Medkenna so ad mætte jeg, mijnum þig Fodur hia, og þu lærer ad ecke sie, uppa neinn Mañ sig reidande, so treyster einn mig a.

## Saalen.

17. Hvar fyrer lietstu Hana-gal, Hug veikia Peturs þar?

## Christur.

Eingenn þvi lijtels agta skal, Anda mijns Bendingar, sem fyrer miñstu Medol kann, margopt ad leida Syndarañ, a Veg Umvendunar.

## Saalen.

18. Þvi leitstu, DRotteñ, hier til hanns, Hoogværdar Auglite?

## Christur.

So viter þu ad Megne Mañs, mogulegt ecke sie, Yðrunar Verk ad efna sitt, an þess ad Naadar Til-lit mitt, ad eins hann uppveke.

## Saalen.

19. Hvar fyrer yfer Hold þitt var, hengd ein Purpura Slijk?

## Christur.

Illgiørder þijnar alraudar, afmaade Forsmaan slijk. Skal og Rettlætis Mottull minn, Misverknad allann hylia þinn, og Brotin Bloode lijk.

 Saal-

## Sålen.

20. Hvi var stijngande Þyrne-Kranns, þitt Hofud settur a?

## Christur.

Hvi Bolvan Guds syrer Misgiørd Manns, mier giørvoll yfer la. Korona Dyrdar eilijf er, affsijdis løgd til Handa þier, Lijfs epter lidna Þra.

## Sålen.

21. Hvar fyrer þier, minn HErra, Reir, i Hendur fengenn var?

## Christur.

Mijn vid þig, sem ert Mold og Leir, Myskun er teiknud þar. Bråkadann Reir ei brioota vil, bløs eg ad veikum Trwar Jl, Hrelldum til Hressingar.

## Sålen.

22. Hvar fyrer leidstu Håd og Spie, Himnanna sterke Gud?

## Christur.

Tignarleg Vegsemd so þier sie, Sælunnar wtvegud. Dioflanna Spott þig sakar sijst, siålfur þvi afmåd hef eg vijst, allañ þañ Osøgnud.

## Sålen.

23. Hvar fyrer var med Hråkum lytt, heiløgust Asiaañ þijn?

Christ-

## Christur.

Afmindud þu so Allt frijdt, odlist i Guds Augsyn, og so hann framar alldrei þier, wtskirpa nære af Vorum sier, æ Harmkvæle miñtur mijn.

## Saalen.

24. Hvar fyrer Auglit hulde þitt, Hæd-skalska Flockur sæ?

## Christur.

So Nædar Auglit meger mitt, i Mannraun þinne siæ, og ad mijn dyrdleg Andlits Sool, Unnnarfull vid Lambsins Stool, þig skijne uñ Eilijfd æ.

## Saalen.

25. Præla hvar fyrer þolder Slog, þu Knesum af og Reir?

## Christur.

So Bolvan Logmæls bitur miog, berde þig alldrei meir. Sathans Freistinga sefast Pijn, Samvitsku Lemstur græddé eg þijn. Burt eru Bodlar þeir.

## Saalen.

26. Hvar fyrer Avorp heiptarlig, heyrder þu, Brixl og Spie?

## Christur.

So mæle Fader minn vid þig, i Myskun og Astseme, og heilags Anda harla blijd, Hugg-

unar Ræda a Mootgangs Tijd, þijn Hiartans Svolun sie.

## Saalen.

27. Hvar fyrer var þar heiptug giord, Hwdstroka Svipum med?

## Christur.

Samvitsku vondrar Hyding hord, hier so þig saae ei skied. Nie fyrer drygda Synda Sekt, sijdar þig Hwdlaat pijne frekt, Topudum tilbwed.

## Saalen.

28. Þvi lietstu saangenn færa þig, fyrer Doom Pilati?

## Christur.

Uppa þad Verk þijn Orielig, afplaanest so sem Sky. So fyrer straangann DRottenns Doom dregenn ei verder, helldur froom, metenn a Þijnge þvi.

## Saalen.

29. Aklogun falska, Lijge og Last, þvi leidstu DRottenn kiær?

## Christur.

Ad skylldu þar med Onytast, Akiærur sannar þær, sem fyrer Eyru Fødur mijns, framkoma vegna glæpugs þijns, Athæfis, Otal nær.

## Saalen.

30. Medkenna hvi þu munder þad, miñst hefde Valld a þier, Pilatus, honum ofannad, utann þad gæfist hier? Chri-

## Christur.

Eins skalltu vita ad eingenn Makt, under færmijna Christne lagt, meir enn er leift af mier.

## Saalen.

31, Daudans hvi felld þig yfir er, Alyktan hvørge slok, þo mætte finnast moote þier, Misgiørdar eingenn Rok?

## Christur.

Er þad Bevijsing, oflug þo, ad eg vijst fyrer þijna Doo, enn ecke siaalfs mijns Sok.

## Saalen.

32. Utann Jorsala þvi er þijn, Þiaaning og Helsor skied?

## Christur.

Ad eg i hina er uppe skijn, innleidde þig hier med, hvar þu skallt laus vid Synd og Sorg, sijfeldt i þeirre Fridar Borg, lifa med gladvært Ged.

## Saalen.

33. Þvi munde Krossiñs þwnga Trie, þrengt til ad undergaa, Simoni vera af Cyrene, sem þig var lagt uppaa?

## Christur.

Hvørsu ørmagna eg ordenn var, under Misgiørdum Veralldar, þu kannt af þvi ad siaa.

Saal-

## Saalen.

34. Hvors vegna Simon þesse þann, þiñ hitte Krossburd a, af Akre komenn mæddur Mann, meinande Hvijld ad fa?

## Christur.

Þvi sa ma vænta Kross og Kijss, sem kys af Akre þessa Lijfs, til Hvijldar Guds ad ga.

## Saalen.

35. Hvors vegna Fotum færdur af, Frelsare minn, þu vart?

## Christur.

Allt vegna þijn eg yfergaf, wtlagde Giald Ospart, uppa þad Totur Lasta lioot, leystust af þier, enn hier a moot, odlest þu ædra Skart.

## Saalen.

36. Þvi varstu HErra hengdur a, hadugleyt Gaulga Trie?

## Christur.

So þu mætter i Himin ha, hefiast af Jorduñe, og Bolvan sw sem barst a mig, blessadann skylde giora þig, i DRottenns Auglite.

## Saalen.

37. Mordingia tveggia mille þig, minn Gud, þvi hengia lietst?

Christ=

## Christur.

So Þu, Unnustann elskulig, Englunum samlijktest, og nidt i skiærum Skara þeim, skileñ vid þennann vonda Heim, a Hædum um̃gængest.

## Sælen.

38. Hvar fyrer negldur, HErra, þu, Hegningar varst a Tried?

## Christur.

So friælsar Hendur fenger nu, ad fremia Rettlæted, og so þijn Footspor giorduft greid, ad gánga retta Fridar Leid; Þess vegna þad er sked.

## Sálen.

39. Hvors vegna skiede a Hausastad, HErra þinn Daude sár?

## Christur.

Merk vel, ad hann er Medal þad, sem myket Heliar Sár, lijka fyrer þa læt eg Grein, lifande verda hin daudu Bein, sem myrdte Synd Oklár.

## Sálen.

40. Hvar fyrer munde, HErra, hreinn, heill láatenn Kyrtell þinn?

## Christur.

Fyrer þvi, eg vil eignast einn, Oskiptann Sofnud minn; Lærdooms Missklijd og Villa vest,

vil eg aldeilis burtrymest, fraa honum sierhvort Sinn.

## Sálen.

41. Gallblandad Edik þyrstum þier, hvi var minn JEsu, sært?

## Chrístur.

So heilags Anda Svolun hier, sætust þig sæe nært, enn sijdann himneskt Engla Braud, utvalenn fæde þig minn Saud, og Vellystar Vatned skiært.

## Sálen.

42. Hvi nader hroopa þañ:ñ þu: Hvi yfirgafstu mig, minn Gud, minn Gud? Nær Mæda sw, mest yfirdunde þig?

## Chrístur.

So heyrast alldrei þyrste af þier, sem þetta vijst forskulldader, sw Klogaun saraumlig.

## Sálen.

43. Hvors vegna yfir-liestu-lijst, Laat fyrr enn þitt var skied, ad þad fullkomnad værevijst?

## Chrístur.

Vel særdu þar af sied: Ad Krafa Logmaals, uppfyllt er, og Laujn fullkomen gefenn þier Krojs-Dauda mijnum med.

Saal-

## Sálen.

44. Hvar fyrer Myrkur hulde Jord, HErra minn þegar dooſt?

## Chriſtur.

Afmaalud verdur hier med hord, Helvijtes Pijna liooſt, sem Daude minn þig frelſte fraa, Formyrkvun ſu þvi vekia maa, þitt, til Packlætes, Briooſt.

## Sálen.

45. Hvi leidde Andlaats Ydran braad, Illvirkia i Paradijs?

## Chriſtur.

Eingenn ſo DRottenns efe Raad, ſaa upp af Syndum rijs; Þo Kvollde Lijfs ſie komed ad, Kraptur mijns Dauda verkar þad, er Trwen æ ſier kijs.

## Sálen.

46. Hvar fyrer þijna helgu Önd, Hollde nær ſkyldeſt fraa, fooſtu i Guds þijns Fodurs Hond?

## Chriſtur.

Fagra ſo Breytne þaa, i Tijma ſkuler temia þier, til þinnar eins ad bwaſt hier, Heimferdsdæder aa.

Saal-

## Sálen.

47. Hvad skal eg aptur hier ꝏ moot, HErra minn, giallda þier?

## Christur.

Ad þu af Hiartans innstu Root, elsker mig so sem ber, Gudhrædslu og Trwar Ydkun i, eflest og verder Skepna ny, þolug og þacknæm mier.



